Jón Hjaltalín:

Íslenzka homöopathian
og
norðlenzku prestarnir.

Rv. 1858.

# ÍSLENZKA HOMÖOPATHIAN

OG

NORÐLENZKU PRESTARNIR,

RITAÐ AF

*Dr. HJALTALÍN.*



REYKJAVÍK 1858.

PRENTAÐ Í PRENTSMIÐJU ÍSLANDS. E. ÞÓRÐARSON.

L' homœopathie s'est tenue en dehors de tous les progrès de la Médecine moderne. Trousseau et Pidoux, Traité thérapeutique, Pag. LV.

Tveir norðlenzkir prestar, sumsè sèra *Magnús Jónsson* á Grenjaðarstað og sèra *Þorsteinn Pálsson* á Hálsi, hafa árið sem leið fundið sig knúða til að gjörast að nokkurskonar homöopathiskum postulum fyrir land þetta, og má lesa *pistla* þeirra í tveimur ritgjörðum, sem prentaðar eru á Akureyri 1857. Annar af þessum pistlum, sem út er kominn á sumardaginn fyrsta, og hefur því átt að vera nokkurskonar sumargjöf handa Íslendíngum, heitir *„Homöopathian* á borð við *Allopathiuna* og *Antipathiuna“,* og er skrifaður, ekki af postulanum *Páli,* heldur af postulanum Þ. Pálssyni, og er hann í rauninni ekki annað en illa frágeingin útleggíng á þeim meðal lækna alkunna og marghrakta ritlíngi *F. A. Günthers* um „homöopathiuna“. Hinn pistillinn, sem heitir „Dr. *Hjaltalín* og vísindin“, og á að vera nokkurskonar svar upp á ritgjörð mína um homöopathiuna í fyrra vetur, er skrifaður af hinum hálærða, homöopathiska postula, sèra Magnúsi Jónssyni á Grenjaðarstað. Þessi pistill er eins og hinn fyrri endaður í Aprílmánuði, og eru þeir þann veg báðir ætlaðir til að vera eins og nokkurskonar sumargleðja handa Íslendíngum.

Með því nú sá síðarnefndi af pistlum þessum einkum hefur snúið málinu að mèr, þá ætla eg einkanlega að fara nokkrum orðum um hann, jafnvel þótt eg hálfnauðugur hreifi við slíkum óþverra, sem þar er framborinn, einkum þegar honum eru samferða slíkur hroki og gort, er alls eigi sæmir neinum menntuðum manni, og allra sízt þeim, sem á að leiða lýðinn í allan sannleika með hógværð og stillíngu.

Þegar eg í fyrra skrifaði ritgjörð mína „Vísindin, reynslan og homöopatharnir“, og skoraði á homöopatha vora, að svara henni með ástæðum, þá gat mèr eigi dottið

í hug, að menntaðir menn mundu fara að gjöra þetta með fúkyrðum, slettum og lygum, sem allra minnst sitja vel á þeim, er eptir stöðu sinni eiga að vera sannleikans og hógværðarinnar sendiboðar og erindisrekar, en eg vil biðja hvern óvilhallan og menntaðan mann að lesa „exordium“ hjá prestinum séra Magnúsi Jónssyni á Grenjaðarstað í áðurnefndu riti hans, og dæma svo sjálfan; en „exordiumið“ prestsins hljóðar svona: „Eg var naumast búinn að yfirfara ‚Vísindin, reynslan og homöopatharnir‘, þegar eg sá, það hefði átt að heita að réttu lagi: *‚Fáfræðis-ósannindahaturs- og sleggjudóma-þvættíngur um homöopathana‘* “; og þessi *„grautur“*, sem hann svo kallar, á nú að vera blandaður *„lygasögum um homöopathana, drembilegum lærdóms-drjúgyrðum og gorti“*.

Það er eins og blessaður presturinn, þegar hann skrifaði þetta, hafi haft hið gamla latínska máltæki í huga sér: „Lastaðu djarflega, menn trúa þó alltènd einhverju af því“ — Detractori audacter semper aliquid hæret —. Hann hefur, eins og sjá má af riti hans, orðið reiður við áðurnefnda ritgjörð mína, og hugsað svo að svala sèr og við hafa fúkyrði, í stað þess að koma með ástæður. En herra presturinn, þessi sannleiksins og hógværðarinnar kennari, hefði átt að spara sèr þessa reiði, því mèr sýnist hún heldur fara að sitja illa á honum, þegar pistillinn hans ber það með sèr, að hann er hvergi ofþýngdur af sannleika, lærdómi eða hógværð, eins og síðar mun sýnt verða.

Sèra *Magnús* hefur skipt pistli sínum í 5 greinir, sem hann þykist þurfa að rótfesta hjá almenníngi, áður en hann fer að hrekja áðurnefndan bækling minn, „Vísindin reynslan og homöopatharnir“. Þessar 5 greinir eiga nú að vera máttarstoðirnar undir hans mikla homöopathiska musteri, og til þess að það geti staðið sem fastast, vill hann fyrst reka þær niður og jarðfesta þær í heilum lesendanna, svo að einginn stormur eða hreggviður kunni þeim að granda. Vèr skulum nú skoða þessa máttarstólpa hans, sjá, hvað gildir þeir eru, og hvað fallega þeir eru til höggnir, heflaðir og litaðir.

Hinn fyrsti máttarstólpi homöopathiska musterisins er svona lagaður:

„Grundvallarregla homöopathanna“ (segir postulinn), „líkir sjúkdómar batna af líkt verkandi meðölum“ — similia similibus curantur —, styðst bæði við vitnisburði margra merkra allopatha, og er byggð á náttúrulögmáli!!

Hann (presturinn) sýnir nú því næst, hvernig orðið homöopathia sè undir komið, og hvernig homöopatharnir við hafi öldúngis gagnstæða aðferð við allopathana, hverra fyrsta erfðasynd á að vera það, að þeir við hafi meðöl, sem eru „gagnstæð“ sjúkdóminum og þess vogna standi ekki í „neinu sam„bandi við hann“, á meðan homöopatharnir „brúki til lækn„ínga þau meðöl, sem inntekin af heilbrigðum í *stórskömt„um* orsaki sjúkdóm, er sè líkastur sjúkdómi þeim, er þeir „vilji lækna“. En hèr við bætir nú rithöfundurinn þeirri athugasemd, að eg „ljúgi“ því, að homöopatharnir taki meðölin í smáskömtum, þegar þeir sèu að reyna þau. Eg hef nú ekki að svara þessu öðru en því, að eg neyðist til að trúa, að prestskepnan hafi aldrei lesið neina homöopathiska bók, þótt hann látist vera afarmikill homöopath, því annars væri hann naumast svo ósvífinn, að segja mig *„ljúga“* það, er stendur nálega í hverri homöopathiskri bók, og ber hann því þannig sjálfur böndin að sèr með það, hvað herfilega *fákunnandi* hann er í því, sem hann er að innprenta löndum sínum, að hann viti manna bezt. Eg verð að biðja herra „pastorinn“ eða postulann, hvort sem hann heldur vill heita, að lesa *Hahnemanns* „Reine Arzneimittellehre“ og *Hartmanns* „Systematische Darstellung der Arzneiwirkungen“ vel ofan í kjölinn, áður en hann fer að segja mig „ljúga“ það, sem alkunnugt er, og svo að segja finnst í hverri homöopathiskri skruddu, en það er, að homöopatharnir alltènd reikna verkanir meðalanna eptir því, sem þau verka í *„smáskömtum“*. Það er auðsèð að sèra *Magnús* treystir því, að landar hans muni ekki vel að sèr í þýzkunni, því annars hefði hann ekki þá ósvífni, að segja mig ljúga upp á Hahnemann og homöopathana, er eg við hef

þeirra eigin orð, eins og þau standa í prentuðum bókum þeirra eptir þá sjálfa, en þetta gjörir hann þó á mörgum stöðum, svo það er annaðhvort, að hann skilur ekki þenna lærdóm, sem hann læzt vera að kenna, eða hann vísvitandi segir ósatt á móti betri sannfæríngu. Herra pastorinn gleymir því líka, að með þessu móti kemst hann í herfilega mótsögn við sjálfan sig, þar sem hann á öðrum stað, sumsè bls. 26—27, segir, að meðölin *„þurfi að vera í smáskömtum til að geta verkað á líkamann,* og sýnt krapta sína". Það mátti nærri því geta, að annar eins maður og *Hahnemann*, sem hafði einga trú á stórskömtunum, heldur á smáskömtunum, sem hann áleit eina færa *um að geta* verkað á líkamann, aldrei gat dottið það í hug, að fara að reyna meðölin á þeim „óþjálu skömtum", eins og presturinn kallar þá, þegar hann mátti vita fyrirfram, eptir hans sjónarmáta, að þau gátu ekki, eins og sèra Magnús einnig játar, verkað á líkamann nema í smáskömtum; já herra pastorinn segir sjálfur, *„að allir heilvita menn sjái,* að verkan þeirra *geti ekki* átt sèr stað nema með því, að þeim sè skipt í sem smæsta parta". Af þessu geta nú allir heilvita lesendur sèð, að það var tómur óþarfi fyrir herra prestinn að gína svo mjög yfir því, er eg sagði í riti mínu, „að læknum hefði enn þá ekki tekizt að setja í sig vissa sjúkdóma eptir Hahnemanns lærdómi", eins og hann gjörir í riti sínu bls. 14, og allra sízt þurfti hann að stela því undan, er eg lagði til í riti mínu, þar sem þar stendur „eptir Hahnemanns lærdómi".

Eg hef enn þá aldrei á æfi minni sèð nokkurn rithöfund fara ósvífnar með rithöfunda, en þessi góði prestur gjörir, því auk þess að hann almennt skrökvar upp á þá heilum meiníngum, og snýr út úr orðum þeirra á þann viðbjóðslegasta hátt, þá er hann þar til svo ósvífinn, að hann heldur ekki hlífir þeim, er hann má álíta sem sína lærifeður, en hvort þetta kemur heldur af heimsku eða illgirni, það má hann bezt sjálfur vita. Þannig segir hann á meðal annars á bls. 22 í þessu sínu merkilega riti, þar

sem hann er að tala um meðalatilbúníng homöopathanna, á þessa leið: „það eru ekki homöopatharnir, heldur einmitt allopatharnir, sem þurfa að *hrista og skaka* meðölin“, en þó segir *Hahnemann* sjálfur, að það sè einmitt höfuðreglan við tilbúnínginn á homöopathisku meðölunum, að þau sèu *hrist og skekin* eptir föstum reglum, en þessu stelur sèra Magnús ekki að eins undan, heldur þrætir og fyrir það[1]. En hver veit nema prestskepnan hafi ekki viljað láta almenníng vita þessa merkilegu vísbendíngu Hahnemanns um meðalatilbúnínginn, af því hann kynni þá að verða of lærður, og hann veit sjálfur af reynslunni, að hægt er að verða homöopath hèr á landi á vorum dögum, ef menn bara kunna að búa til meðölin, eða eru nógu óskammfeilnir til að látast kunna það.

Þegar eg þannig stuttlega hef sýnt, hvernig herra presturinn stelur undan, misskilur, og snýr út úr hjá lærimeistara sínum, og hann fer þannig með hið græna trèð, þá mun lesendum mínum bráðum geta skilizt, að hið visna trèð, „allopatharnir“, sem eru óvinir hans, hafi ekki við góðu að búast, enda þykir mèr heldur taka í hnúkana, þegar gamli

[1]) Til þess að menntaðir menn geti sèð, hvernig Hahnemann sjálfur hefur farið að þessu, set eg hèr orðrètta klausu úr „Ugeskrift for Læger“ 13. Juni 1846, en hún hljóðar svona:

„Men naar man seer, hvori den homöopathiske Præparation bestaaer, der skal udvikle disse overordentlige Kræfter, maa man uvilkaarligt trække paa Smilebaandet. I nogle faae Aar vil Hahnemann have gjort saa mange Forsög, at han deraf troer sig berettiget til at uddrage den uomtvistelige Erfaring !!, at der f. Ex. til de förste 2 Grader af Dosis-Formindskelse (der bevirkes ved Blanding af Mælkesukker) nödvendigvis maa stödes 6 Gange, hver Gang 6 Minuter, og afvexlende hermed omskrabes 6 Gange, hver Gang 4 Minuter, saa at hele Præparationen nöiagtig optager 1 Time. Ligesom ogsaa Oplösningerne i Alcohol og Vand absolut maa omröres netop 10 Gange (mit zehn Arm-Schlägen); det vilde naturligviis være en ubödelig Skade, om Stödningen og den vigtige Sammenskrabning varede i 5 Minuter hver !!, eller, om man kun rörte 9 Gange i Oplösningen, eller lidt for hurtigt, hvor det skal være langsomt, o. s. v“. Þetta staðfestir og sèra Þorsteinn, þar sem hann segir í riti sínu (sjá blaðs. 31), „að handbragðið gjöri svo mikið til, að decillionföld þynníng geti verkað ???.

*Hippocrates*, sem orðinn er að moldu fyrir 2200 árum síðan, allt í einu er gjörður að nokkurskonar homöopath, jafnvel þótt það væri hann, er fyrst sagði: „Gagnstætt læknar gagnstætt", „Τὰ ἐναντία τῶν ἐναντίων ἐστιν ἰήματα", og hefur þessi nafnfrægi læknir aldrei lagt þá þýðíngu í orð sín, er sèra *Magnúsi* og öðrum homöopöthum hefur þóknazt að spinna út úr þeim. Hippocrates var líka allt of mikill læknir til þess, að hann vissi ekki, að ekki að eins tveir, heldur og jafnvel fleiri sjúkdómar, geta átt sèr bústað í mannlegum líkama í senn, og orðið dáindis vel ásáttir að búa saman í honum, unz hann er eyðilagður. Það þarf varla mikinn lærdóm til að sjá þetta, því dagleg reynsla sýnir það hverjum eptirtektasömum manni, þótt hann lítið sem ekkert viti í læknisfræði. Eg held það sè naumast miklar nýjúngar hèr á Íslandi, að sjá menn að fram komna í lifrarveiki, brjóstveiki eða holdsveiki, stynjandi undir ýmsum öðrum kvillum, er hèr yrði of lángt upp að telja, og beri þá með höfuðkvillanum allt til grafarinnar. Það hefur ekki borið á öðru, en að bæði mislíngasóttin og kvefsóttin hafi lagzt á hina holdsveiku, og búið með fullu samlyndi saman við hana í líkamanum; og þótt mörgum batnaði mislíngarnir og kvefsóttin, var holdsveikin og lifrarveikin, bæði á meðan sóttirnar vöruðu, og eins eptir það, eingu minni, heldur jafnvel verri, en þær áður verið höfðu. Það stoðar því harðla lítið herra „pastorinn", þótt hann sè enn fremur að slíta sèr út á því, að skírskota til ýmsra lækna frá fyrri öldum, bæði með þetta og annað, og það situr því lakar á honum, að vera að finna styrkíngar fyrir meiníngum sínum í þessu máli úr ritum hinna eldri lækna, sem honum þykir minna til þeirra koma, og sýnir það víða í riti sínu, að hann niður níðir þá á allar lundir, þar sem honum þykja þeir ekki vera samdóma þessum hans svo kallaða nýja lærdómi. Á hinn bóginn er það og auðsjeð, að prestskepnan hefur farið í smiðju, þótt hann láti svo, sem hann hafi allan þenna mikla lærdóm með öllum sínum tilvitnunargreinum (Citater) af sjálfs síns lestri. Til

að sannfærast um þetta, þarf maður ekki annað en lesa varnarrit hinna eldri og nýjari homöopatha á Þýzkalandi, „Hahnemanniana“, sem út hafa komíð í Berlin og víðar frá 1820—34, hvar allur þessi citatagrautur finnst niður raðaður á sama hátt og herra presturinn hefur gjört, og er hann ætlaður til þess að villa sjónir almeníngs í málefni því, er hann lítið eða ekkert skynbragð ber á. Það stoðar lítið, þótt læknar hafi hrakið þetta aptur og aptur, bæði á Þýzkalandi, í Danmörku og víðar, því homöopatharnir við hafa þá sömu aðferð sem norðlenzku prestarnir. Þeir snúa sèr að almenníngi með ýmsar lygasögur, rángfærðar og afbakaðar greinir úr ýmsum rithöfundum, er þeir vita, að almenníngur einga sannfæríng getur um feingið. Þetta á svo sem að sýna þeirra mikla lærdóm, og þeim hefur opt tekizt furðanlega vel að blinda almenníng með þessu. En einmitt með þessu bera þeir sjálfir böndin að sèr á endanum, því þegar þeir eru búnir að sjóða þenna rángfærða „citatagraut“ frá hinum eldri læknum og fá sèr spón af honum, þá fara þeir að skamma þá fyrir heimsku þeirra og lærdómsleysi. Þetta hefur sèra Magnús einnig trúlega apað eptir þeim, því á bls. 16 í riti hans stendur svo: *„Hugmynd sú, sem til vor er komin úr myrkri hinnar fornu læknisfræði, er með öllu raung“*!! En því er þá þessi blessaði norðlenzki ljósberi að fálma út í þetta forna allopathiska myrkur, og tína þaðan sannanir fyrir „homöopathiunni“, þessum nýja lærdómi, sem uppljómar allan heim? er hann ekki hræddur um, að þessir allopathisku dásar muni taka sig illa út millum þessara fögru homöopathisku vaxljósa með öllum þeirra ljóma innan um hans fagurskrýdda homöopathiska musteri? Að öðru leyti finnst mèr hann naumast þurfa að lá allopöthunum, eða falla í forundrun yfir þeirri villu þeirra, er hann kallar (sjá bls. 16), þótt þeir hafi tekið meðöl inn heilbrigðir, til að reyna verkanir þeirra á sínum eigin líkama, því hafi homöopatharnir, eins og hann segir (bls. 20), 300 meðöl, hverra verkun þeir eiga að þekkja nákvæmlega, „af því þeir heilbrigðir hafa reynt þau á sín-

um eigin kroppi“, *og það eptir hans eigin sögn í stórskömtum*, þá hafa þeir þó heldur en ekki þurft að láta upp í sig meðalabita.

Aldrei tekur nú samt betur í hnúkana hjá þessum homöopathiska postula, en þegar hann eptir skammirnar til allopathanna neðst á bls. 16 fer að sýna lesendum sínum hyrníngarstein hins veglega musteris, því þar byrjar hann svona:

„Reyni menn nú að grennslast eptir, hvernig meðalið verkar á mannlegan líkama, verða þeir að setja á sig eptirfylgjandi atriði, er sýna gildi lækníngaraðferðar homöopatha“(???). Þetta höfuðatriði hjá blessuðum prestinum verður nú það, að líkami mannsins uppfylli einn óskiljanlegur kraptur, er hann kallar lífskrapt, sem eins og nokkurskonar formaður gæti að því, að allir líkamans hásetar (partar eða verkfæri líkamans) gegni ætlunarverki sínu. Á meðan þessi formaður er með fullu fjöri, þá fer nú vel, en þegar hann dasast, þá fara hásetarnir (það eru líkamspartarnir) ekki að hlýða, og þá þarf nú að gefa formanninum í staupinu, þó ekki eins og við allopathar gjörum, heldur fær hann nokkurskonar homöopathiskt pínustaup, eða ógnarlega lítinn sykurmola, til að stínga upp í sig, sèr til hressíngar, svo hann geti stýrt skipinu og látið hásetana hlýða sèr; og þetta er nú höfuðefnið eða endirinn á fyrsta máttarstólpa prestsins í hans homöopathiska musteri (sjá bls. 17—21). Það er nú svo sem sjálfsagt, að herra presturinn hefur ætlazt til þess, að almenníngur skyldi gefa honum fundarlaunin fyrir þessa miklu uppgötvun, en það er nú samt svo fjærri því, að hann eða Hahnemann eigi þau skilið, að allopatharnir voru búnir að finna þenna svo kallaða „lífskrapt“ laungu áður, en *Hahnemann* og sèra *Magnús* voru fæddir í þenna heim. Þessi svo kallaði lífskraptur eða (*vis vitalis*) með öllum þeim uppsmíðuðu eiginlegleikum, er hann á að hafa, var fyrir laungu kunnur á *Helmonts* og *Tissots* dögum, eða nærfellt fyrir 300 árum síðan, og homöopatharnir hafa ekkert annað gjört, en þeir

hafa tuggið það upp eptir gömlum læknum, sem lifðu á 17. og 18. öld, afbakað orð þeirra og komið svo fram með þau eins og sitt eigið smíði.

Læknirinn og náttúrufræðíngurinn *Paracelsus*, er lifði öndverðlega á 16. öld og dó 1541, var sá fyrsti, er byggði lærdóm sinn um sjúkdómana og lækníngar þeirra á þeim svo kallaða *lífskrapti*, er hann kallaði *„Archæus“*; en ýmsir merkislæknar, er lifðu seinna á 16. og 17. öld, og þótti þetta nafn óljóst, kölluðu þenna krapt *„vis vitalis“*, og það nafn hefur haldizt fram á vora daga. Það var og einnig *Paracelsus*, er fyrstur allra lækna fann upp hinn „homöopathiska“ læknismáta, er hann kallaði *medicatio*, eða *methodus substitutiva*, og hann var sá fyrsti, sem sagði: *„líkt læknar líkt“* (similia similibus opponenda). Þessu stal nú *Hahnemann*, og til þess að stuldurinn yrði ekki uppvís, bjó hann til þessar smáskamta inntökur, sem *Paracelsus* víst mundi hafa þakkað honum lítið fyrir, hefði hann lifað honum samtíða, því *Paracelsus* var vel máli farinn og í öllum greinum lángtum lærðari en *Hahnemann*. Af þessu geta nú landar mínir sèð, hvað *spánýr* lærdómur „homöopathian“ er, eins og norðlenzku prestarnir eru að innprenta þeim, og þeim mun varla þurfa að þykja þeir fylgja of vel tímanum, þegar þeir fá að vita, að það er almennt sýnt og sannað meðal hinna nýjustu náttúrufræðínga og lækna, að lífskraptur sá, er homöopatharnir tala um, og byggja allt á, *er alls ekki til*, allra sízt í þeim skilníngi, er þeir taka hann. Þetta kann nú að þykja nokkuð skrítið, og því verð eg að fara fleirum orðum um það, jafnvel þótt það sè mjög örðugt, að gjöra slíkt skiljanlegt fyrir almenníngi, er litla sem einga þekkíngu hefur, hvorki á lífinu yfir höfuð að tala, eða á hinni aðdáanlegu samteingíngu skaparans milli sálar og líkama. Af eldri ritum hafa margir menntaðir menn án efa feingið trú á hinum svokallaða *„lífskrapti“*, og eg ætla, að það sè í rauninni ekki svo fáir, er hafa álitið hann sömu tegundar sem sálu mannsins, en slíkt hefur leitt af

sèr mikla villu, og homöopatharnir hafa trúlega aukið hana með heimskulegum og hègiljufullum hugmynda smíðum.

Eg vil nú fyrst í stuttu máli leiða lesendum fyrir sjónir meiníngu hinna lærðustu manna, sem uppi eru á vorum dögum um þetta efni, og því næst vil eg með fám orðum tala um *lífið* og *lífskraptinn,* og sèst þá bezt, hvað mikið verður úr þessum máttarstólpa hinnar homöopathisku byggíngar. Einhver hinn lærðasti lífseðlisfræðíngur vorra daga, hirðráð *Carus* í Dresden, talar um þenna *lífskraptslærdóm* á þessa leið: „Hvílíkan fjölda heimskulegra hugmynda hefur ekki þessi aðskilnaður á krapti og lifandi líkams pörtum (Organ) af sèr fætt í lífsfræðinni! — Menn vildu ekki gjöra sig ánægða með að þekkja lífið í þess þúsundföldu ummyndunum (Metamorphoser), menn lètust ætla að finna og sýna einhvern *sèrstakan krapt,* og við það komust menn á óskiljanlegar villigötur"[1]. Professor *Mulder,* hinn nafnfrægasti efnafræðíngur vorra tíma, segir: „Það, að viðtaka einn almennan krapt, er menn hafa kallað lífskrapt, sem eigi eins og að stjórna hinum lifandi pörtum, *á hvergi heima við reynsluna*"[2].

Háskólakennari *Valentin* í Bern, einhver hinn nafnfrægasti og mest viðurkenndi lífseðlisfræðíngur hinna nýjari tíma, segir í lífseðlisfræði (Physiologie) sinni: „Viðtektin á þessum svo kallaða lífskrapti er eigi að eins tómt hjal um fjölda ókunnugra ásigkomulaga (ɔ: líkamans), heldur leiðir hún til ályktana, sem standa *í beinni mótsögn* við það, er

---

[1]) Welche Masse sonderbarer abstruser Vorstellungen hat diese Trennung von Kraft und Organ nicht eben in der Lehre von Leben allein herbeigeführt! — Man war mit dem Wahrnehmen und Erkennen des Lebens und seiner tausendfältigen Metamorphosen allein nicht zufrieden, man wollte eine b e s o n d e r e L e b e n s k r a f t erkennen und nachweisen, und fiel auf die wunderlichsten Irrwege. Sjá C a r u s P h y s i o l o g i e, Leipzig 1849, 1. Th. Pag. 20.

[2]) Die Annahme einer allgemeinen Kraft, welche die organischen Gebilde beherrscht, der so genannten L e b e n s k r a f t, findet durch die Erfahrung keine Bestätigung. Mulders Physiologische Chemie, Braunschweig 1851, 1. Th. Pag. 62.

lífseðlisfræðin kennir manni"[1]. Hinn nafnfrægi efnafræðíngur, barún *Berzelius* (sem sèra Magnús og svo þykist vera að skírskota til), barðist leingi á móti lærdómnum um hinn svo kallaða *„lífskrapt"*, og vildi fá menn til að sleppa nafninu, er hann kvað orðið að villuljósi hjá allmörgum, og slíkt hið sama gjörði efnafræðíngurinn *Lehmann* (hvern sèra Magnús og svo þykist þekkja), og hann segir því í sinni „organisku Chemie" bls. 41: „Látum oss líta nokkur fimm ára bil aptur á bak, og yfir líta þann fjölda af viðburðum í hinum lifanda heimi, sem menn þá leiddu út af hinum *þokuhulda lífskrapti*, en sem nú við uppgötvanir *Magendies, Valentins, J. Müllers* og *Webers* — (sem allir eru nafnfrægir lífseðlisfræðíngar) og annara, eru sannaðir að vera upp sprottnir af hreinum eðlisfræðislegum náttúruviðburðum eða lögum"[2]. Á líkan hátt tala allir hinir nýjustu lífseðlisfræðíngar og efnafræðíngar, sem uppi eru á vorum dögum, og sèst því á þessu eins og mörgu öðru, hvað nákvæmlega norðlenzku homöopatharnir og þeirra lærifeður fylgja með tímanum.

En hvað er þá þetta líf, ef einginn lífskraptur er til? munu margir segja; hvernig ætlar þú að gjöra oss skiljanlegt, að vèr getum lifað, ef einginn lífskraptur er í oss? og held þú eigir bágt með það. Þetta er svo gömul kenníng, hvað nýja sem homöopatharnir vilja láta hana vera,

---

[1]) Die Annahme einer solchen Lebenskraft giebt aber nicht nur ein blosses Wort für eine Reihe sonst unbekannter Verhältnisse, sondern führt auch zu Folgerungen, welche genaueren physiologischen Kenntnissen widerstreiten. Prof. Valentins Grundriss der Physiologie des Menschen, Braunschweig 1856, Pag. 2.

[2]) Blicken wir nur einige Lustra zurück, und überschauen die Menge von Erscheinungen in der organischen Welt, die man damals von der in ewigen Nebel gehüllten Lebenskraft herleitete, während wir sie jetzt nach den Forschungen eines Magendie, Valentin, J. Müller, Weber und andrer als einfache Folgen rein physischer Gesetze erkannt haben. Sjá Prof. Lehmanns Lehrbuch der Physiologischen Chemie. Leipzig 1848, Pag. 41. Af þessu má sjá, hvað spánný þessi gamla lífskraptaþoka homöopathanna er.

og vèr erum orðnir svo vanir henni, að vèr eigum bágt með að slíta oss frá henni. Hvað ætlar þú að gjöra við ódauðlegleika sálarinnar, ef þú neitar lífskraptinum? eða ætlar þú að fara að kenna oss þann lærdóm, að vèr drepumst út af eins og hrædýrin? Vittu það fyrir víst, að vèr trúum eingu því, sem er andstætt trú vorri á ódauðlegleikanum, enda munum vèr hafa nægar sannanir fyrir honum, á meðan prestar vorir og guðfræðíngar eru uppi, ekki sízt þessir hálærðu, homöopathisku norðlenzku prestar, hvað sem þú svo segir.

Þannig munu margir hugsa og tala, þegar þeir heyra, að eg vil ekki kannast við þenna svokallaða sèrstaka lífskrapt, sem maðurinn á að hafa, og eg lái þeim það að miklu leyti ekki, því einmitt slíkar og þvílíkar hugsanir gjörðu, að eg enn þá nokkru eptir, að eg var orðinn læknir, hèlt fast við þenna *lífskrapt,* svo leingi sem eg gat, þángað til laung umhugsun og lestur góðra rithöfunda ljóslega sýndu mèr, að þetta væru nokkurskonar hugsmíðar, sem hvergi ættu heima í náttúrunnar ríki, og sem í rauninni leiddu menn í allt aðra átt, en þeir höfðu hugsað. En hvernig stendur þá á lífinu? munu lesendur mínir enn fremur spyrja; hvað er lífið, fyrst einginn *lífskraptur* er til? hvað er þá það, sem saman heldur líkamanum, lætur hann vaxa, þroskast, lifa og deyja? Eitthvað má það þó vera, og eg skal nú í stuttu máli leitast við að svara þessu, og þótt það kunni að verða miður af hendi leyst, en eg vildi, þá verða þeir að vorkenna mèr það, því það mun koma að miklu leyti af því, að eigi er hægt að gjöra slíka hluti skiljanlega fyrir þeim, sem lítið þekkja til náttúrunnar og hennar margbreyttu efna. Eg skal nú gjöra litla tilraun, að leysa úr þessu, og hún er svona.

Eg vona, lesari góður, að þú sjáir það, að fyrir augum þínum sveima óteljandi hlutir, og það slíkir, er þú veizt eigi nafn að gefa. Líttu upp í hinn alstirnda himin, og þú munt sjá þar óteljandi stjörnur með skærri birtu og miklum ljóma. Vittu, að líkamir þessir, sem sýnast svo

litlir fyrir þínum augum, eru stórir hnettir, sem allt af eru á hraðri ferð um alheiminn, fljúgandi með hraðari ferð en nokkur byssukúla, og þó eru þeir svo takmarkaðir í gángi sínum, að ekki víkja þeir út af leið sinni, heldur halda þeir henni áfram, sem afmældur vegur væri, um tíma og aldur. Renndu nú aptur augum þínum fyrir fætur þèr, hvort þú heldur vilt niður í hina dökkleitu mold, eða yfir hina grænu, grösum skrýddu grund. Í moldinni, sem sýnist vera svo ljót og svo einföld, liggur efni það, af hverju þú ert gjörður, og þú skalt aptur að henni verða; vittu fyrir víst, að þótt hún fyrir augum þínum sýnist dökkleit, dauð og lítils verð, þá liggur þó í henni efnið til þín og alls þess, er hrærist á jörðinni; gáðu að því, að í henni er fólginn hinn sami almættiskraptur, sem þeytir stjörnunum um alheiminn, og skamtar hinum óteljandi sólum, hnöttum og túnglum þeirra gang um himinhvolfið. Hugsaðu þá um það, sem stendur í guðs orði, en það er: „af jörð ertu kominn, að jörð skaltu verða, og af jörðinni skaltu aptur upprísa“; vittu, að þetta eru heilög sannindi, sem hin í þínum augum svo lítils verða dauða mold bendir þèr á, ef þú þekktir hina huldu náttúru, sem í henni liggur. Þegar þú litla stund hefur skoðað og ígrundað allt þetta, þá renndu augum þínum yfir hafið og líka yfir þenna stóra geim, sem eingan enda sýnist hafa. Hugleiddu nú vel, að í þessum geim lifa óteljandi skepnur, er þú getur opt sjeð með augunum, en hinar eru þó millíón-sinnum fleiri, er þú aldrei fær augum litið, þótt þú gætir geingið og skriðið með endilaungum mararbotni; því á hverjum dropa vatns, sem er í hafinu og vötnunum á meginlandinu, lifa mörg lifandi dýr, er þú aldrei fær augum litið. Rennir þú nú aptur augum þínum yfir hina grænu grund, þá mætir þèr hin sama margbreytni, þú sèr þar óteljandi jurtir með ýmsum skapnaði, sem eptir tímanna skiptum lifna, þroskast og deyja. Sjálfur sólargeislinn sýnir þèr óteljandi agnir, sem eru á sífelldu iði og hreifíngu, og sýnir þèr, að loptið er fullt af einhverjum þèr ókenndum lífshræríngum. Þegar þú hefur með sannri

eptirtekt og umhugsun yfir litið og aðgætt allt þetta, þá muntu bráðum verða þess var, að hèr eru einhverjar hreifíngar, sem lángt yfir gánga skilníng þinn. Þú veizt ekki, hvaðan þær koma, eða hvert þær stefna, en að þær sèu til, getur þú ómögulega neitað, nema þú sèrt *sjáandi blindur* og *hugsandi hugsunarlaus*. Eg gjöri nú ráð um, lesari góður, að þegar þú hefur sèð allt þetta, þá munir þú koma til mín með steinmola og segja: „Þú þykist alstaðar sjá hreifíngu og líf, í lopti, sjó, vatni og jörð; láttu mig nú sjá, gjörðu nú steininn þann arna lifandi, eða sýndu hreifínguna í honum, eg held að steinmolinn sá arna sè þó nokkurn veginn dauður, og hafi einga hreifíngu í sjálfum sèr, hvernig sem með hann er farið“. Eg skal nú aldrei neita því, að þetta er nokkurskonar vandaspurníng, og ekki ólík þeirri, er djöfullinn gjörði frelsaranum forðum, þegar hann bað hann að gjöra steinana að brauði, en þó ólíku sè saman að jafna, þá skal eg þó reyna til að sýna þèr, að steinninn er ekki svo ómerkilegur eða hreifíngarlaus, eins og þú heldur. Taktu við stækkunarglerinu og skoðaðu í steininn og segðu mèr svo, hvað þú sèr; eg ímynda mèr nú, lesari góður, að þegar þú ert búinn að líta á steininn í stækkunarglerinu um hríð, þá munir þú sjá í honum smáagnir, og það jafnvel skærari og fegurri, en þú bjóst við, og að þú munir eiga bágt með að neita mèr því, að agnir þessar hafi ýmsar myndir, en viljir þú sjá, hvernig agnir þessar myndast af *sjálfu sèr*, þá verður þú að lofa mèr að taka steininn, mola hann og uppleysa á þann hátt, er eðli hans er til, en þegar eg er búinn að því, þá skal eg aptur með öðru stærra stækkunargleri geta sýnt þèr, hvernig agnir þessar myndast, vaxa og þroskast, unz þær hafa náð sinni rèttu upprunalegu mynd, allt að einu og grasið vex upp úr fræinu, og tekur á sig sèrstaka mynd eptir eðli þess og náttúru. Gæti eg nú, lesari góður, sýnt þèr, hvernig dýrin koma upp, lifna, vaxa og þroskast, þá mundir þú ómögulega geta neitað mèr því, að þetta skeður við nokkurskonar náttúruefnunum óaðskiljanlega innri hreifíngu, sem í öllu

eðli sínu er harðla samsvarandi þeirri, er þú sèr á steininum, þá er hann er að myndast úr myndarlausri leðju og vökva, og á fræinu, meðan það úr dálitlu krínglóttu hnoða verður að hárri og fagurri jurt, sem lifnar, þroskast og vex í hinni dökkleitu moldu. Lífið er því eigi annað en þessi fólgna guðdómlega fyriræltun, sem er óaðskiljanleg frá náttúruefnunum, en gjörir það að verkum, að þau eptir vissu lögmáli setja sig í ýmsar myndir, allt eptir þeim máta og reglum, er fyrir hugað var frá upphafi.

Þegar þú nú með nokkurri eptirtekt hefur aðgætt þetta, lesari góður, þá býst eg við, að þú munir spyrja mig, hvaða mismunur sè á *efnum* og *krapti,* og það skal eg segja þèr, að hann er í stuttu máli þessi: Efni kalla menn alla þá hluti, sem á einhvern hátt verða *vegnir, spannaðir,* eða *mældir;* krapt kalla menn það, sem *annaðhvort hreifir sig sjálft,* eða setur aðra *hluti í hreifíngu;* kraptur og efni eru óaðskiljanlegir hlutir, og það veldur miklum ruglíngi í vísindunum, er menn vilja skilja það að; en efnin eru gædd ótal kröptum, og þessir kraptar sýna sig á ýmsan hátt, eptir því sem efnunum slær saman. *Menn þekkja nú um stundir 62 frumefni á vorum hnetti,* og geta þau á ýmsan hátt sameinazt sín á milli, en sameiníng þessi skeður jafnan eptir föstum hlutföllum, sem skaparinn hefur ákvarðað frá öndverðu. *En þetta er náttúrulögmálið, að kraptur efnanna er alla-jafna í vissu hlutfalli við stærð þeirra; hann mínkar því við öll efni, þegar efnið verður minna, og stækkar, eptir því sem efnið er stærra, allt eptir eðli þeirra og náttúru.* Í sjálfum frumefnunum liggja sèrstakir kraptar fólgnir, er menn þó aldrei geta aðskilið frá þeim, heldur eru óaðskiljanlega samteingdir við þau, og við sambland frumefnanna æxlast og umbreytast kraptar þessir á ýmsa vega, og þannig leiðast í ljós óteljandi myndir í lopti, vatni og jörðu, og er vèr sjáum þessar myndir hreifast og vaxa, eins og af sjálfu sèr, þá köllum vèr þær lifandi. Frumagna-hreifíngin er því aðaleinkenni hinna lifandi líkama, og vèr köllum vanalega þann

líkama dauðan, á hverjum vèr einga frumagna-hreifíngu sjáum. Nú með því að öll náttúruefnin með þeirra kröptum í raun og veru eru á sífelldri hreifíngu, þótt vèr með augum vorum opt eigi getum sèð hana, þá segjum vèr, að *öll náttúran sè lifandi*, og að lífið sè óaðskiljanlega samteingt náttúruefnunum[1]. Vèr köllum raunar hluti þá, hverra hreifíngu vèr eigi sjáum, dauða, en oss yfirsèst, af því að skilníngarvit vor eru allt of sljó, til að sjá hinar huldu hreifíngar náttúruefnanna, sem allt af eru í sífelldri umbreytíngu, þótt þau sýnist að vera dauð og hreifíngarlaus fyrir vorum augum. Steinninn sjálfur, sem fyrir vorum augum er eins og einhver fyrirmynd dauðans, hvers vegna vèr segjum um dauðan líkama, að hann sè *steindauður*, er á sífelldri umbreytíngu. Vatnið, loptið og hinir rafurmagnskynjuðu straumar verka á hann á hverju augnabliki, og smáagnir hans hreifast þannig, þótt þær sýnist hvíla fyrir vorum sjónum, að út úr steininum vaxa mosar og jurtir, þær verða með frumefnum steinsins smátt og smátt að mold, og í þessari mold vaxa fögur grös og fríðar jurtir, og af þessum jurtum lifir þú og dýrin, sem þú hefur til fæðu.

Af þessari stuttu og einföldu lýsíngu náttúrunnar vona eg, lesari góður, að þèr hafi skilizt það, að allt líf kemur frá náttúruefnunum, liggur fólgið í þeim, og verður með eingu móti frá þeim skilið, því lífið er ekki annað en sjerstök afar-margbreytt samsetníng náttúruefnanna í ýmsar myndir, samkvæmt kröptum þeim, er skaparinn lagði í náttúruefnin, þá er hann skóp þau í öndverðu. Þessir kraptar náttúruefnanna eru í raunninni eigi annað en eiginlegleikar þeirra, sem einginn getur frá þeim skilið, nema þau sjálf yrðu gjörð að eingu, en þetta er óhugsanlegt, þess vegna er og þessi skoðun á lífinu miklu samkvæmari trú vorri á ódauðlegleikanum, en trúin á þessum sèrstaka lífskrapti, sem sèra

[1]) Hinir nýjustu efnafræðíngar hafa nú í mannlegum líkama fundið ekki færri en 80 efni, af hverjum hvert um sig er gætt vissum eiginlegleikum eða kröptum, er umbreyzt geta á ýmsan hátt, eptir því sem samsetníng þessara frumefna umbreytist.

*Magnús* og séra *Þorsteinn* þykjast þekkja svo vel, og sem myndar grundvöllinn undir hinu homöopathiska musteri.

Sá er enn einn hlutur, er eg verð nákvæmar að skýra þèr frá, lesari góður, en það er einn sjerstakur eiginlegleiki allra náttúruefna, hvort sem þau heldur eru einföld eða samsett, en hann er sá, *að náttúruefnin sameinast alltènd eptir vissum hlutföllum*, og geta ómögulega sameinazt á annan hátt en eptir eðli því, er samsvarar þessum hlutföllum. Hlutföll þessi eru bundin við frumagnir efnanna, og eru því eins margvísleg, eins og frumefnin eru mörg til, þannig getur frumefni það, er menn kalla *„lífslopt"*, og sem sameinar sig nærfellt öllum náttúruefnum, sem til eru, ómögulega gjört þetta, nema það innibindi í sèr 8 frumagnir af sjálfu sèr, og gullið þarf að hafa í sèr 98 frumagnir, ef það á að geta samlagazt öðrum efnum. Járnið, sem menn smíða úr ýmsar myndir, eins og öllum er kunnugt, getur ómögulega komizt í samband við nokkurt annað náttúruefni, nema það innibindi í sèr 28 frumagnir, og *tinnuefnið (silicium)*, sem myndar mestan hluta jarðarinnar, og sameinar sig við fjölda af hinum náttúruefnunum, getur ekki sameinazt öðrum efnum, nema það innibindi í sèr 22 frumagnir. Slíkt hið sama gildir um öll hin náttúruefnin, og geta hlutföll þessi margfaldazt á ýmsa vega, og fram koma þar af óteljandi líkamir, dýra-, grasa- og steinategundir, sem enginn fær upp talið. Þetta hèr nefnda frumagna-hlutfall meðal allra hluta er sannarlegt náttúrulögmál, sem skaparinn sjálfur hefur veitt efninu, og sem er óaðskiljanlegt frá því. Þetta viðurkenna allir náttúrufræðíngar, og þótt sumum þeirra hafi þótt hægra, að hlutfallatalan væri stærri, en hèr er til tekið, þá gjörir það ekkert glundur, því hlutfallið meðal efnanna raskast ekkert við það; eg hef hèr nefnt hina minnstu tölu þessara hlutfalla, af því mönnum þykir hún hægust viðfángs í efnafræðinni, en þó verða menn jafnan að viðhafa hina stærri hlutfallatöluna, þegar útreikna þarf hlutfallatölu vatnsefnisins.

Sèrhver náttúrufræðíngur og efnafræðíngur, sem þekkir

frumefnin og hlutfallatölu þeirra, verður að kannast við það, að homöopatian er tómur þvættíngur og *öldúngis gagnstæð öllum náttúrulögum;* því segir og hinn nafnkunni efnafræðíngur *Liebig* (til hvers sèra *Magnús* þó læzt vera að skírskota) um hana á þessa leið: „Hver getur feingið sig til að trúa, að fjöldi hinna menntuðu manna vorra tíma sè leingra kominn í því, að þekkja náttúruna og krapta hennar, en efnafræðislæknarnir voru á 16. öld, þegar hann verður þess var, að til eru læknar í hundraðatali, sem, þótt þeir hafi lært við vora háskóla, halda með grundvallarreglum, sem eru alsendis mótstríðandi allri sannri reynslu og heilbrigðri skynsemi; þessir menn, sem halda, að verkanir meðalanna liggi fólgnar í sèrstökum kröptum eða hvíleg-leikum (Qvaliteter), sem við hristíng og núníng komi í hreifíngu, og geti meðdeilzt öðrum efnum; þessir menn, sem halda, að *náttúrulögmálið,* er einga undantekníng hefur, innihaldi ósannindi um læknismeðölin, sem þeir halda að aukist að kröptum, eptir því *sem þeirra verkandi efni mínkar*"[1].

Af þessu getur nú sèra *Magnús* sèð, hvað einhver hinn merkasti og lærðasti maður vorrar aldar hugsar og dæmir um „homöopathiuna" og um hið uppskrökvaða náttúrulögmál, er hann (sèra *Magnús*) er að bera á borð fyrir landa sína. *Liebig* er alþekktur um allan heim meðal lærðra manna, og einginn getur brugðið honum um, að það sè af

---

[1]) Hvo tör paastaae, at Fleertallet af de oplærte, dannede Mennesker i vor Tid, staaer paa et höjere Triin i Erkjendelse af Naturen og dens Kræfter, end det 16. Aarhundredes Iatrochemikere, naar han veed, at Hundreder af Læger, som have uddannet sig ved vore Universiteter, hylde Grundsætninger, som trodse al Erfaring og sund Menneskeforstand; Mænd der troe, at Lægemidlernes Virkninger ligge i visse Kræfter eller Qvaliteter, der ved Gnidning og Rysten kunne sættes i Bevægelse og forstærkes, og overföres paa uvirksomme Stoffer, der troe, at en Naturlov, der ingen Undtagelse har, er usand med Hensyn til Lægestoffer, idet de antage, at deres Virksomhed kan t i l t a g e med deres Formindskelse af virksomt Stof. Sjá Chemiske Breve af Justus Liebig, ny Samling, Kjöbenhavn 1854, Pag. 61—62.

meðhaldi með allopathiunni, að hann talar svona, hann hefur alvarlega sagt allopöthunum til yfirsjóna þeirra, og bent mörgum þeirra á rèttan veg, og er hver ærlegur allopath honum þakklátur fyrir það, og tekur við leiðrèttíngum hans með gleði. En það er ekki *Liebig* einn, sem talar svona um homöopathiuna, heldur allir hinir lærðustu efnafræðíngar. Sèra *Magnús* þarf því ekki að vera svo drembilátur af því, að hann þykist vita af einhverjum sèrlegum efnafræðíngum í Leipzig og víðar, sem haldi svo mikið upp á homöopathiuna, og byrli þeirra frábæru meðöl, því þessir hans efnafræðíngar eru samvizkulausir umhleypíngar, sem allt að einu og hann látast vita allt, en vita þó minna en ekkert, eins og raun gaf vitni í Leipzig fyrir alls eigi laungu síðan, hvar þeir af tómri heimsku byrluðu mönnum hin verstu eitur í homöopathiskum sykurkúlum, og sluppu fyrir rèttvísinnar hegníngu, af því þeir þekktu ekki verkanir efnanna, er þeir voru að byrla fólki. Það væri sannarlega bezt fyrir sèra *Magnús*, að nefna aldrei efnafræði, en hvort sem hann heldur, að eg kunni lítið í henni eða ekki, læt eg mèr liggja í eins lèttu rúmi eins og lygasögur þær, er hann er að lofa löndum sínum um það efni. Sá maður, sem fer eins með almenníng, eins og hann gjörir, má sannarléga vera búinn til alls, og nokkrar skröksögur liggja naumast þúngt á samvizku þess manns, sem hefur líf og heilsu landa sinna að leikfángi, þar sem hann kemst að, um sama leytið sem hann ekki skammast sín fyrir að kasta steini á og niður níða hina beztu lækna, sem uppi eru á vorum dögum, og talar drjúgt um þessa sína „homöopathiu", í hverri hann þó sjálfur er sannur skottulæknir og sýnir nógsamlega í riti sínu, að hann aldrei hefur almennilega lesið.

Það hefði verið bezt fyrir þenna norðlenzka vitríng, að fara minna inn í lífseðlisfræðina (Physiologie), en hann hefur gjört, því þá hefði hann ekki komið því upp um sig, er rit hans nú ber með sèr: það, að hann verður að vera heldur aumlega að sèr í sálarfræðinni, og liggur hún þó nær hans prestlega kalli heldur en „homöopathian". Hvað

ætli að duglegir útlendir allopathar mundu segja, ef menn segðu þeim, að út á Íslandi væri klerkur einn, sem þættist lángtum vitrari en þeir, og væri að inn prenta löndum sínum þann vísdóm (!!), að allur þeirra lærdómur væri gamalt hèrvillumyrkur og vitleysa, einkum ef menn bættu því við, sem þó mun satt vera, að þessi hinn sami prestur, gæti ekki haldið ræðukorn frá stólnum, nema hann læsi það upp af blöðum, og væri þar til svo báglega að sèr í sálarfræðinni, að hann hèldi, að hinn svo kallaði *lífskraptur* og sálin væru sömu tegundar. Þetta verður hann þó að halda, fyrst hann er að samlíkja sálarinnar verkunum, reiði, gleði, ótta, o. s. frv. (sjá bls. 32 í riti hans), á líkamann saman við smáefnin í homöopathisku skömtunum. Í barnalærdómnum lærði eg forðum, að sálin væri sá mannsins partur, sem ályktaði og hugsaði, og að hún, sökum sambands síns við líkamann bæði gæti haft áhrif á hann og hann á hana, og við þetta hef eg haldið síðan. Nú heyri eg þann lærdóm af presti, að sálarhreifíngarnar sèu eins og margskiptir homöopathiskir skamtar, en hafi þessi efni í sèr (eins og þessi postuli kennir); þá verða sálarinnar verkanir og hún sjálf líka að vera af efnum, en þetta er, eins og allir vita, gagnstætt trúnni á sálarinnar ódauðlegleika.

Af því, er nú hefur verið sagt, vona eg að lesendum mínum skiljist það, að allt, sem þessi homöopathiski prestur er að kenna mönnum um veiklun *lífskraptarins*, sem undirrót til allra sjúkdóma (sjá bls. 18 og 19 í riti hans), ásamt verkun hinna homöopathisku skamta á þenna *lífskrapt*, er eintómt bull og heilaspuni, enda mundi mig naumast bresta enn þá fleiri ástæður, til að marg-sýna það, þótt eg ætti í höggi við hina lærðustu homöopatha, sem nú eru uppi. Eg hefði þá átt því hægra, sem eg þá ætti við honum menntaðri menn að tala, er hljóta að taka á móti vísindalegum ástæðum, sem prestskepnuna vantar lærdóm til að skilja. Hann má og vera viss um það, að hans lærðu homöopathar, sem hann er að „citera“ í, eru fyrir laungu

síðan marg-hraktir af embættisbræðrum mínum erlendis, og hafa því, eins og hann, orðið að ráðast á vegginn, þar sem hann er lægstur, með því að skírskota máli sínu undir þeirra manna dóm, er þeir vissu, að lítið sem ekkert vit hefðu á því, og dæmdu því allopt eins og hinn blindi mundi dæma um litina.

---

Þar eð eg þykist nú vera búinn að full-sýna fúann í hinum fyrsta máttarstólpa hins mikla homöopathiska musteris, þessa höfuð-máttarstólpa, sem á að bera alla bygginguna á herðum sèr, þá mundi nú mörgum þykja óþarfi, að eg gjörði mèr mikið ómak fyrir hinum innviðunum, en samt ætla eg að fara nokkrum orðum um þá, og tek eg þá í einu lagi tvo fyrir í einu, sumsè hina aðra grein um „*Meðalaskamtafræði homöopathanna*", og hina þriðju um „*Sannanir fyrir verkun smáskamtanna*", sem eiga að vera „*teknar úr lífs- og sjúkdómafræðinni, náttúru- og efnafræðinni*" !! (sjá bls. 21—40).

Höfundurinn byrjar þessa grein sína með því, að láta oss vita, að þótt eg og aðrir óvitrir allopathar ekki komum meðalatilbúníngi homöopathanna í höfuð vor, þá sè hann þó mjög einfaldur!! „Af þurrum meðalaefnum, t. a. m. málmum, jarðartegundum, söltum, er tekið eitt gran í dupti og vandlega núið saman við 99 grön af mjólkursykursdupti", og þetta kallar hann hina „fyrstu þynníng". „Af þessari fyrstu þynníngu er nú aptur tekið eitt gran, og núið saman við 99 grön af hreinu mjólkursykri, og er þá komin önnur þynníng. Af þessari annari þynníngu er til búin hin þriðja á sama hátt og hinar, þannig, að eitt gran af hinni annari þynníngu er núið saman við 99 grön af mjólkursykurdupti, og er þá komin þriðja þynníng", og þegar búið er nú að þessu, þá er tekinn vínandi og vatn til hinna eptirfylgjandi þynnínganna.

Til þess nú að sýna lesendum mínum, hvað *einfalt* og auðvelt þetta er, þá viljum vèr taka eptir fylgjandi dæmi, og það er þetta:

Eitt af þeim meðölum, sem allopathar og homöopathar almennt viðhafa, er *járn*, hverju hinir síðast nefndu — eins og líka má, ef það er rèttilega viðhaft — tileinka margar dyggðir. Látum oss nú ímynda oss, að herra presturinn ætli að búa til 3. þynníngu úr járni, og að hann taki þar til, eins og homöopatharnir eiga að gjöra, 1 gran af járni. Stærð þessa grans svarar til ofurlítillar járnagnar, álíka og títuprjónshöfuð, og henni á hann að skipta, eptir því sem hann sjálfur segir, í *millíón parta*, áður en hann fer að uppleysa hana. Hana nú, herra pastor! takið þèr við járnögninni, þarna er hún, á stærð við meðal- títuprjónshöfuð, farið þèr nú að núa, en til þess þèr narrið hvorki mig eða aðra og gefið oss sykurmola fyrir járn, þá vil eg láta yður sleppa sykrinu fyrst um sinn, en eg ætla að eins að biðja yður að láta mig vita af, þegar þèr eruð búinn að gjöra þessa járnögn að *hundrað þúsund smáögnum*, og er þó þetta að eins *tíundi hlutinn* af því, sem þèr *þykizt* geta gjört. Eg skal ekki neita því, að mèr þætti gaman að sjá yður stritast við járnögnina og vita, hvort hún yrði ekki seig undir morter-stautnum, um það leytið sem þèr væruð búinn að fá úr henni *10 þúsund* smáagnir eða *hundraðasta partinn* af því, er þèr þykizt geta gjört. Satt að segja ímynda eg mèr, að þótt sèra *Magnús* færi að stauta járnögnina, sem þó á að vega, eins og hann til tekur, 1 gran, og er á stærð við títuprjónshöfuð, nú strax, þegar þetta er skrifað, og væri að, þángað til Norðlendíngar lifa þá hryggðarstundu, að sjá hann hverfa ofan í moldina, þá mundi hann aldrei fá henni skipt í 100 þúsund hluti, og því síður í *millíón* smáagnir, eins og hann þykist geta.

Sèra *Magnús* treystir því, að landar hans verði hvervetna, sem von er, gabbaðir á stórum tölum, er þeir alls einga hugmynd hafa um, og því getur hann máske feingið hina einfaldari af þeim til að trúa því, að *einum dropa* af vökva verði skipt í *decillion parta*, og að hann geti gjört þetta með 30 litlum glösum, en það er í rauninni hið sama, sem hann vildi segja þeim, að einn dropi af

vökva gæti útþanizt svo mikið, að hann yrði stærri og meiri ummáls en öll fjöllin á Íslandi. Það er hið sama sem hann vildi segja við þá: „farið þèr með dropann þann arna og kastið honum í *Stórasjó*, þegar vatnið er í mikilli hreifíngu, takið síðan einn dropa úr þessum sjó, látið hann drjúpa á fíngurgóminn, á yður, og skolið fínguriun vel í *Þíngvallavatni*, þegar sem hvassast er á því, og með þessu móti verður Þíngvallavatn að *mátulega þynntu smáskamtameðali*. Það getur varla hjá því farið, að sèra *Magnús* fer sjálfan að svima, ef hann hugsar nokkuð út í, hvílík ógnarleg tala *decillionin* er, en má ske mannskepnunni sè ekki um annað að gjöra, en hugsa hverja vitleysuna, sem vera skal, og koma svo þessum vitleysu-grúa inn hjá löndum sínum, eins og honum er framast unnt.

Eg hef áður sagt, að *eitt gran* væri hèr um bil hið sama sem byggkorns þýngd, og til þess að lesendur mínir geti feingið hugmynd um, hvað mikil hrúga að *decillion* byggkorn sè, þá viljum vèr fyrst sjá, hvað mörg byggkorn liggi í einni tunnu af meðalbyggi, og munu þeir þá geta feingið dálitla hugmynd um, hvað ein *decillion* af byggkornum hefur að þýða. Menn vita af reynslunni, að ein tunna af byggi á að vega 8 lísipund eða 128 pund. Eitt pund vegur 32 lóð, en í hverju lóði eru 240 grön eða byggkornaþýngd; eptir þessum reikníngi verða þá 7,680 grön eða byggkorn í hverju pundi, og það margfaldað með 128, sem er pundatalan í tunnunni, sýnir, að í henni eru 983,040 (það er níu hundruð áttatíu og þrjú þúsund og fjörutíu) byggkorn. Setjum nú, að til Íslands flytjist á hverju ári 10 þúsund byggtunnur, þá verða það 9,830,400,000 (það er níu þúsund áttahundruð og þrjátíu millíónir og fjögur hundruð þúsundir) byggkorna á ári, og ef vèr nú ímyndum oss, að jafnmikið bygg hafi flutzt híngað til landsins í 1000 ár, síðan landið byggðist, þá eru þó allir Íslendíngar, sem hafa lifað frá landnámstíð, enn þá ekki búnir að borða meira en 9,830,400,000,000 (það er níu billionir átta hundruð og þrjátíu þúsund og fjögur hundruð millíónir) byggkorna,

sem híngað hafa átt að flytjast, síðan landið byggðist. Íslendíngar eru þar fyrir enn þá fjarska lángt frá því, að vera búnir að eyða *trillion* byggkorna síðan landnámstíð, en þó er þetta ein af hinum lægstu tölum, sem homöopatharnir nefna, þegar þeir eru að skipta *einu grani* í *quintillion, sextillion* og *decillion staði*!!! Sèra *Magnús* talar um, að eg álíti frumefna-agnirnar (Atomerne) svo *ósköp stórar;* þetta er nú eins og önnur hans ósannindi; það hef *eg aldrei sagt,* en hitt segi eg, að hvorki *hann eða nokkur* homöopath, hvað lærður sem hann á að vera, getur *skipt* einu grani í *trillion, quintillion* eða *decillion* staði, og þegar hann er að telja löndum sínum trú um það, og læzt sýna þeim það með smáglösum, svo hefur hann þá að gabbi, og inn prentar þeim ósannindi, sem *aldrei hafa* og *aldrei geta* átt sèr stað, hvort sem nú heldur þetta kemur af heimsku hans eða kæruleysi um *satt* og *ósatt.* Það lítur annars næstum svo út, sem þessi góði prestur sè með vilja að draga landa sína á tálar, að minnsta kosti er aðferðin með hans 30 glös þannig leidd fyrir sjónir, að hún er auðsjáanlega gjörð til að blinda menn, og villa sjónir fyrir þeim, en hann dregur þó allt of illa skýluna yfir *tálsnörur* sínar, og treystir því allt of mjög einfeldni almenníngs í þessu efni. Látum oss taka hans eigin orð, svo þessi *sannleiks-postuli* geti fallið á sínu eigin bragði, og tálsnörur hans verði eingum óljósar; hann segir sumsè (bls. 23): „Til að skipta einu meðalsefni í decillion parta, þarf því að eins 30 glös, af hverjum hvert fyrir sig tekur 100 dropa af vínanda, en öll samtals 3000 dropa. Allir geta nú sèð — segir sannleiks-postulinn — að eptir þessum tilbúníngi er í hverju *grani* eða *dropa* af 1. þynníngu $^1/_{100}$, í 2. $^1/_{10:000}$, í 3. $^1/_{1:000:000}$, í 6. billíónasti, í 9. trillíónasti[1], í 12. quadrillíónasti og í 30. decillíónasti partur af hinu upprunalega meðalsefni“.

[1]) Það er skrítið, hvað blessaður presturinn hleypur hèr á hundavaði, og hvað lèttfættur hann er að hlaupa frá quadrillion í decillion, en það er þó eigi svo stuttur vegur, þegar hann er mældur, sem hann heldur.

Þetta er nú öldúngis hið sama, sem að herra presturinn skyldi segja við menn: „Þarna er einn dropi, bræður góðir, farið með hann fyrir mig og kastið honum í *Mývatn;* takið síðan einn dropa úr Mývatni, og látið hann í Stórasjó, og er hann af vindinum er vel skekinn saman við vatnið, þá skuluð þèr taka einn dropa úr Stórasjó og láta í Þíngvallavatn, og er það þá mátulega þynnt, til að vera homöopathisk meðöl". Látum herra prestinn neita þessu, ef hann getur, og mun þá verða einhver vegur til að sýna mönnum, að Stórisjór, Þíngvallavatn og Mývatn naumast geta innihaldið meira en *decillion* dropa af vatni, en á hinn bóginn ætlum vèr varla nokkurn mann svo heimskan, að hann geti ímyndað sèr að einn dropi geti útþanizt um allt Mývatn, hvað þá heldur meira.

Að öðru leyti þarf herra presturinn ekki að segja mig „ljúga" það (sjá bls. 26), að homöopatharnir álíti krapta meðalanna aukast, eptir því sem efnið mínkar, því það vita allir, sem dálítið þekkja til þeirra, að þeir gjöra, og því voru norðanbændurnir hans forðum líka að tala um „*sálina*" í meðölunum hans; hann segir og sjálfur (bls. 27), „*að hversu smátt sem einu efni sè skipt, hljóti þó hinn minnsti partur þess að hafa líka verkunar-eiginlegleika og efnið sjálft*". Verður þá efnunum skipt í hið óendanlega, herra pastor? Vatnið uppleysir marga hluti, eins og allir vita, og telst því meðal hinna uppleysandi meðala, er vèr svo köllum, allopatharnir, en gaman þætti mèr að sjá, hvað það væri, sem sèra *Magnús* gæti uppleyst með trilliónasta parti af einum dropa vatns. Herra presturinn ætti heldur ekki að vera svo reiður yfir því, að hann heldur, „að mèr kunni að takast á endanum, að koma mönnum til að brúka meðöl í matarstað". Eg held bæði hann og vèr allir hinir gjörum það, og höfum gjört það alla vora æfi, eða veit þessi lærði maður ekki af því, að vèr höfum heilan flokk meðala, sem heita *nærandi meðöl* (nutrientia), t. a. m. *Salep, hveiti* og þar á meðal einkum hveiti það, er „maranthamèl" kallast, auk margra annara matvæla, svo

sem eru *fjallagrös, fjörugrös, hvannarót,* ýmsar sykurtegundir og kryddjurtir, að eg ekki tali um ýmislegar mauktegundir (Gelee) „kjötextrakt“ og kjötsúpur, er opt sýna sig sem hin kröptugustu meðöl, jafnvel hjá þeim sjúklíngum, er forgefins hafa reynt hinar almáttugu homöopathisku sykurkúlur!!

Það er annars nokkuð hlæilegt að heyra mann, eins og blessaðan prestinn, sem auðsjáanlega einga hugmynd hefur um, hvað meðala-, lífs- og náttúrufræði er, vera að spjalla og skeggræða um hluti, er hann alls ekkert skynbragð ber á, enda verða og úr því heldur stórkostlegar vitleysur, og það ekki hvað minnst, þar sem hann fer að tala um frumefnin og skiptíngu þeirra. Þannig segir hann t. a. m. bls. 39. „Úr teníngs-þumlúngi vatns verða 1728 teníngs-þumlúngar af gufu, og hvílíkt afl hefur hún ekki?“ Hvað mikið afl haldið þèr hún hafi, herra pastor? og hvað stór haldið þèr þessi teníngur mundi verða, ef hann yrði stækkaður *decillion sinnum?* Eg hef beðið herra yfirkennara *B. Gunnlögsen* að reikna út flötinn á honum fyrir mig, og er hann fór að reikna, komst hann bráðum að því, að flöturinn af honum kemst ekki fyrir í sólkerfi voru; hvernig lízt yður á molann, herra pastor? Herra Gunnlögsen tók þá til millibilið millum sólarinnar og pólstjörnunnar, en það varð einnig mikils til of lítið, og endalyktin varð, að flötur teníngsins verður á stærð við millibil pólstjörnunnar frá sólu, margfölduðu 6 sinnum. Þèr sjáið á þessu, herra pastor, að þessi „*decillion*“ er ekki með öllu svo viðráðanleg, eins og þèr haldið, og þegar þèr eruð að inn prenta löndum yðar, að þèr getið skipt einu grani og einum dropa í „*decillion*“ staði, þá getið þèr eins vel talið þeim trú um, að þèr gætuð tekið hið stærsta fjall, sem til er á Íslandi, og stúngið því í vasa yðar, eða látið allt Íshafið í hattinn yðar; því hvort um sig er jafn-satt. Mig varðar svo sem lítið um, hvað *Mayerhofer* og *Seguin* hafa uppdiktað, yður og öðrum fáfræðíngum til ásteytíngar, en hafi þeir sagt, að þeir með sjónauka, sem stækkaði 75 falt.

hafi sèð kopar- eða salmiakagnir úr einu grani, eptir að búið var að skipta því í *„trillion“*, *„quadrillion“*, og *„quintillion“* staði, þá er það álíka satt, og ef þeir hefðu þózt sjá títuprjónshöfuð upp í túnglinu; hvorttveggja er alsendis ómögulegt, og getur ekki átt sèr stað.

Þegar herra presturinn um sama leytið, sem hann er að tala um smáagnir, sem eigi eru til, og verkanir þeirra, neitar því, að mannleg skilníngarvit geti orðið vör við lopteitur-tegundir (Miasma), þá sýnir hann bezt, hvað bágléga hann er að sèr í sjúkdómafræðinni. Veit hann þá ekki, góði maður, að lopteitur-tegundirnar eru til, ekki að eins í granatali, heldur að öllum líkindum í mörg þúsund pundatali, og vilji hann sannfærast um þetta, þá er honum bezt að fara suður að Nílfljótinu, þegar pestin er komin þar í algleymíngi sínum, eða skoða stóru staðina tilsýndar, þegar Choleragufan sveimar yfir þeim, og finna dauninn, sem er í litlum herbergjum, þar sem margir liggja í landfarsótt, og sóttlyktin er megn. Verði hans næmu skilníngarvit ekki vör við neitt á þessum stöðum, þá getur hann reynt að vega „Ozonið“, kvefefnið, í loptinu, þegar kvefsóttir gánga. Hann þykist, hvort sem heldur er, nógu vel að sèr í efna- og kraptafræðinni, og ef hann, eins og hann segir, getur fundið dauninn af einu grani af „Moscus“, sem hefur legið í einu herbergi í 20 ár, þá hefur hann slíkt lyktar-afl, sem eingum manni hefur verið gefið, síðan veröldin byggðist.

Svo sem lítið dæmi upp á, hve rotinn og gamall þessi þriðji máttarstólpi í musterinu sè hjá herra prestinum, vil eg geta þess, að um sama leytið, sem hann ímyndar sèr, að efnin í vatninu eyðileggi eða „neutraliseri“ hvert annars verkanir, þá segir hann, að til sèu margir málmvatna-heilsubrunnar, og nefnir Wildbad og Gastein, sem efnafræðin ekkert geti fundið í, og sýnir einúngis með þessu, að hann og hans homöopathar vita ekkert af, að þessir heilsubrunnar eru nákvæmlega rannsakaðir fyrir nærfellt 30 árum

síðan, bæði af barún *Berzelius* og fleirum öðrum efnafræðíngum.

Málmvatnið í *Gastein* er svona samsett:

| | | |
|---|---|---|
| Brennisteinsúrt kali | . . . . . | 0,055 |
| —— natron | . . . . . . | 1,495 |
| Matarsalt | . . . . . . . . . . . | 0,340 |
| Kolasýrð magnesía | . . . . . . | 0,035 |
| —— kalkjörð | . . . . . . | 0,397 |
| Kolasýrt járn | . . . . . . . . | 0,022 |
| Leirjörð | . . . . . . . . . . . . | 0,050 |
| Tinnusýra | . . . . . . . . . . . | 0,202[1] |

Wildbad hefur mikið líka samsetníngu þessu vatni, og mun herra prestinum, eða flestum lesendum, sem von er, lítið gagn að, þótt eg færi að rita hana upp; hitt væri lángtum fróðlegra, ef sèra *Magnús* vildi sýna og sanna, hvernig þessi efni færu að afmá hvert annars verkanir, eins og hann segir um efnin í vatninu (sjá bls. 28).

Eg verð þá loksins að sýna lesendum mínum hinn 4. máttarstólpa prestsins, en það er: „*Eptirgrennslun homöopathanna um sjúkdómana* (segir presturinn) *er ólík aðferð margra allopatha, sem þykjast vita, en vita þó ekki, um eðli og næstu orsök sjúkdómanna.* Nú mætti búast við, að menn í þessari grein feingju nákvæma skoðun á sjúkdómafræði homöopathanna, en þetta er þó eingan veginn svo, því þessu hefur prestskepnan sleppt fram hjá sèr, heldur fá menn í þess stað hinn argasta þvættíng um eitthvað, sem honum þóknast að kalla allopathiu, með rángfærðum „citötum“ eptir lækna, sem flestir eru dauðir fyrir rúmum mannsaldri síðan. Sjálf mannanöfnin eru svo afbökuð, að menn geta naumast ráðið í þau, og allt ber vitni um, að öll greinin er afgömul þvættitugga, sem eingri átt nær, smíðuð af einhverjum hálf-ærðum homöopath fyrir fullum mannsaldri síðan, en hèr gróðursett af sèra *Magnúsi*. Aðalinnihaldið er, að homöopatharnir viti allt, en þó er allt af dregin einhver skýla yfir undirstöðuna fyrir þeirra

[1]) Sjá Vetter, Heilquellenlehre, Berlin 1845, II. Band, Pag. 254.

vizku; allopatharnir þar á móti eiga að vera flón, sem ekkert vita, og einga undirstöðu hafa, og þó lýsir maðurinn, sem skrifar þetta, því yfir í hverri línu, að hann hefur ekki hina minnstu hugmynd um allopathiuna, eins og hún er á vorum dögum.

Maður getur ekki varið sig hlátri, þegar maður les annað eins og þetta (bls. 43): „Alla sjúkdómafræði hafa læknarnir híngað til byggt á efna- og náttúrufræði, á gömlu frumefnafræðinni eða lífsfræðinni"; eða þá (bls. 47): „Meðferð allopathanna á giktinni hefur glögglega sýnt og sannað, hve lítið þeir þekkja eðli hennar. Hèr eru hinir frægustu læknar hver á móti öðrum, eins og dagur og nótt", o. s. frv., og svo er grautað saman nöfnum manna, sem hafa lifað nærfellt sinn á hverri öld, og þeir látnir rífast um þetta og ýmislegt annað. *Boerhave, Hoffmann* og *van Swieten* eru látnir vera að rífast við suma ýngri lækna, sem aldrei hafa verið til, t. a. m. *Choulart* og *Cholmers!!;* og til þess, að þetta verði allt sem verst útlítandi, er því logið upp, að núverandi allopathar fylgi hinni *gömlu efna- og eðlisfræði,* jafnvel þótt það sè hverjum lærðum manni kunnugt, að ýmsir læknar, sem nú eru uppi, hafa hjálpað til, að mynda hina nýju efnafræði, og að margir af þeim, og þar á meðal einkum ýmsir frakkneskir, þjóðverskir og enskir læknar, hafa með heppni og eindrægni sýnt og sannað, hvernig bæði gikt og ýmsir aðrir sjúkdómar verða læknaðir á *áreiðanlegan hátt* eptir efnafræðislegum reglum[1].

Eg hef enn þá aldrei sèð nokkurn hlut hèr á landi, sem líkist þessum graut og þvættíngi, og eg kalla sèra *Magnús* hafa meira en meðal-ósvífni, að hann þorir að bjóða löndum sínum slíkan samtvinníng af vitleysum og lygi; en maður þessi má vita, hvað hann má bjóða sèr á vorum dögum; hann veit vel, að hann á hliðholla menn nærri sèr, sem ekkert skipta sèr um hið sanna í þessu efni,

---

[1]) Sjá Dr. Prout, On stomach and urinary diseases, og Dr. Golding Bird, On urinary deposits, London 1853. Hver verk nú um stundir eru mjög nafnfræg og almennt viðurkennd meðal allra lækna.

ef að þeir að eins um stundarsakir geta áunnið sèr kjaptalof einfaldrar og afvegaleiddrar alþýðu. Eg hef fyrir mig og embættisbræður mína ekkert á móti því, að sèra *Magnús* verði sèr til eilífrar vanvirðu með slíkum ritum; hann hefur trúlega verðskuldað það, enda er rit þetta nægilegur minnisvarði fyrir hann, meðan það er einhverstaðar til hèr á landi. Látum bæði hann og sèra *Þorstein* ímynda sèr, að þeir sèu bæði lærðari og betur að sèr en allir allopathar, sem nú eru uppi, þeir sem trúa því, mega vera hin mestu flón, sem uppi eru á vorum dögum, og þeir sem ekki trúa þeirra heimsku-sèrgæðíngs-bulli, munu á ritum þeirra sanna Salómons orð: *„Sjáir þú einhvern mann, sem þykist ósköp vitur, þá vittu, að hann er dáranum heimskari“.* Eg vona, að allir skynsamir og óvilhallir menn sjái það, að mèr er ómögulegt að hrekja alla þá lygi og allar þær rángfærðu sögur, sem þessir góðu prestar bera upp á lækna þá, er uppi eru á vorum dögum, nema eg mætti eiga von á því, að almenníngur þekkti alla læknasöguna (Medicinens Historie), en með því eg get ekki vænzt þess, þá þyrfti eg fyrst að skýra frá allri læknasögunni, eins og hún er komin á vorum dögum, og með því slíkt er ókljúfandi fyrir mig á þessum stað, þá verð eg að láta mèr nægja með, að lýsa því opinberlega yfir, að allt það, sem sèra *Magnús Jónsson* og sèra *Þorsteinn Pálsson* hafa skrifað um allopathiuna í ofan nefndum ritlíngum þeirra, er eintóm ósannindi og þvættíngur, sem að eins ekki einúngis sýnir, að þeir með öllu eru ókunnir læknisfræðinni, sögu hennar og framförum, heldur þar á ofan ber ljóst vitni um, að þeir — þótt skömm sè frá að segja — ekki fyrirverða sig, að leiða landa sína afvega í því efni, er almenníngur einga grundaða meiníngu getur um haft. En það ætla eg þó að hverjum skynsömum manni þyki vera fullt í borið, þar sem sèra *Magnús* í endanum á þessari grein segir: *„Það er óþarfi að til greina fleiri dæmi því til sönnunar, að læknar þekki ekki eðli sóttanna.“!!* Huggið yður við það, góðu rètttrúuðu Norðlendíngar, að þótt vèr

allopatharnir ekki eigum að þekkja sjúkdóma, þá hafið þèr hjá yður þessa blessuðu homöopathisku ljósbera, sem, jafnvel þótt þeir þekki ekkert til mannlegs líkama, já, ekki einu sinni partana í litlafíngrinum á sjálfum sèr, þó hafa þá dýpt vizkunnar, að þeir þekkja alla sjúkdóma niður að neðsta grunni!!!

Hvað holdsveikinni við víkur, sem sèra *Magnús* hefur verið að hnýta aptan í grein þessa, þá mun sá sjúkdómur naumast verða honum mikil heilla-þúfa um að þreifa. Eg á ekki svo örðugt með, eins og hann heldur, að færa rök til þess, að skoðanir mínar um hana muni vera á góðum rökum byggðar, og til að sýna honum ofan á það, læt eg prenta hèr álit óvilhallra manna um sjúklíng, er nýlega hefur verið undir minni umsjón með veiki þessa, en það hljóðar svona:

„Við undirskrifaðir vitnum hèr með, að þá er við í fyrra haust sáum *Þorkel Jónsson* frá Lágholti í Reykjavíkur-umdæmi, þá var hann svo þúngbúinn og yfirkominn af holdsveiki, að okkur þótti eingin von, að hann mundi geta geingið í skiprúm á vertíðinni, og að við einúngis eptir ráðum *Dr. Hjaltalíns* lètum til leiðast, að segja honum ekki upp skiprúminu; undir vertíðina hafði sjúklíngur þessi, mót von, tekið slíkum framförum, að við gátum ekki annað en álitið hann næstum albata. Við verðum því að bera það fram, nær sem krafizt verður, að sjúklíngur þessi hefur undir læknismeðhöndlun *Dr. Hjaltalíns* tekið miklum ósiðvanalegum framförum, og virðist oss það mikið gleðiefni og hugfrói fyrir alla, er þjást af þessum illartaða sjúkdómi, að vita, að það gefast þó meðöl og lækníngamáti, er megna að sigra hann.

Litlaseli 22. September 1857.

*Ó. Steingrímsson, S. Steingrímsson, Jón Steingrímsson, Guðmundur Hannesson, Jakob Steingrímsson, Pètur Gíslason.*“

Eg fullvissa herra prestinn um, að eg gæti komið með fleiri slík skýrteini, ef eg vildi eða þætti það á miklu standa,

og eg mundi naumast teljast undan, að reyna mig við hann bæði við þessi og önnur hèr innlend veikindi, ef tæki væri á því, t. a. m. á spítala eins og erlendis. En hann mun geta sýnt nyrðra, hvað lángt hyggindi hans nái, bæði í þessum og öðrum veikindum, að minnsta kosti í munninum; homöopatharnir hafa híngað til verið frakkastir í honum, einkum við almenníng, sem þeir vita, að ekki ber neitt skynbragð á læknisfræðislegar ástæður og læknisfræðis-rit; það er fyrirgefanlegt, þótt alþýðan hneigist til þeirrar trúar, sem prestarnir eru að innprenta henni, því hún á bágt með að trúa því, að þeir menn, sem eiga að vera hennar sannleikspostular, muni innræta henni ósannindi, hjátrú og hègiljur.

Hvað hinni 5. grein í riti sèra *Magnúsar* við víkur, sumsè þeirri, „að homöopathian sè að út breiðast þrátt fyrir ofsóknir allopathanna, þá mun eg svara henni nákvæmlega í „*Nýjum Fèlagsritum*", um leið og eg svara herra studiosus Arnljóti Ólafssyni upp á hið sama efni; eg vil hèr einúngis geta þess, að bæði hefur sèra *Magnús* og Arnljótur í ritum sínum fært hinar beztu sannanir fyrir því, hve yfrið fáa áhángendur homöopathian hefur í samanburði við allopathiuna, því þegar þeim í allri norðurálfu heims ekki hefur tekizt að tína upp meira en nokkur hundruð homöopatha, að öllum skottulæknum með töldum, og menn vita, að öll norðurálfan hefur nærfellt tvær milliónir af allopathiskum læknum, þá er tala hinna fyrri á borð við allopathana eins og dropinn í hafinu, enda er það hverjum menntuðum manni kunnugt, að homöopathian allt af er að komast í meiri og meiri fyrirlitníngu meðal hinna siðuðu þjóða; og það mun varla vera sá *hjátrúarflokkur* til í heimi, er telji *jafn-fáa* áhángendur sem homöopathian, nema ef það skyldu vera *Mormónarnir*. Sá má vera lítið kunnugur heiminum, og jafnvel hinum menntuðu löndum, sem ekki veit af því, að alls háttar hjátrú á sèr hvervetna stað, og hefur fleiri eða færri áhángendur, jafnvel stundum þar, er menn skyldu sízt hugsa. Spákerlíngar og slíkt rusl finnst

enn þá í hópatali, ekki einúngis í stórbæjum, og hjá einstaka hjátrúarfullu heldra fólki, heldur og jafnvel við einstöku konúngshirðir. Á Einglandi, þar sem naumast þrír fjórðu partar á landsbygðinni eru læsir eða skrifandi að vitni Einglendínga sjálfra, og þar sem þess vegna mörg hjátrú, þrátt fyrir hinn mikla lærdóm í stöðunum, er drottnandi, hefur homöopathian þó með sárlítilli heppni reynt að ryðja sèr til rúms, og er öldúngis fordæmd af öllum hinum lærðustu mönnum þar í landi, sem hjátrúarfull vitleysa, er ekki bjóði neinum svörum; en á Þýzkalandi, þar sem Hahnemann byrjaði að prèdika fyrir 60 árum síðan, hefur henni á seinni tímum stórum hrakað aptur á bak. Hèr á Norðurlöndum, *Danmörku, Noregi og Svíaríki,* finnast nú að eins 5 homöopathar, sumsè 4 í Danmörku, og 1 í Svíaríki, en einginn í Noregi, en fyrir 10 árum var tala þeirra tvöfalt stærri. Nú má hver, sem vill, trúa því fyrir mèr, að tveir prestar á Íslandi sèu betur að sèr í læknisfræði en hinar 8 þúsundir allopathiskra lækna, sem nú eru uppi hèr á Norðurlöndum, og viti betur hvað framförum læknisfræðinnar líður en þeir; eg verð að álíta hvern, sem trúir því, hálfvitlausan, hversu opt sem sèra *Magnús* eða sèra *Þorsteinn* eru að stagast á því, og þó hefur sá síðast nefndi ekki fyrirorðið sig að setja þessa vísu framan á bæklíng sinn: „— —*heimskíngjanna háttur þver heimskuna við að búa.*“ Já! já! sèra *Þorsteinn,* það er bágt fyrir öll Norðurlönd að stynja undir heimsku *átta þúsund allopatha??* og sannarlega er Ísland lukkulegt, að það á í eigu sinni tvo góða og gilda homöopathiska ljósbera!!

---

Eg ætti þá að minnast dálítið á bæklíng sèra *Þorsteins,* en eg ætla að vera heldur stuttorður, því eg vona, að allir lesendur mínir sjái, að hann er öldúngis byggður á sömu máttarstólpum sem hið fyr nefnda „musteri“ sèra *Magnúsar.* Meiníngin í báðum þessum bæklíngum er öll hin sama, ástæðurnar hinar sömu, og orðin víðast nærfellt hin sömu. Það sem hrekur annan af þessum bæklíngum,

hrekur því báða, og eg vil hèr að eins setja fáein dæmi úr riti sèra *Þorsteins*, er nógsamlega sýna, að hann talar um hlut, er hann alls ekkert skynbragð ber á.

Til að sýna þetta í stuttu máli, verð eg fyrst að geta þess, að á 35. blaðsíðu í riti sèra *Þorsteins* stendur: „En nú hefur einginn dauðlegur maður enn getað uppgötvað eðli sjúkdómsins“. Höfundurinn viðurkennir þá, að hvorki homöopathar eða allopathar þekki **eðli** sjúkdómanna. Um homöopathana á þetta sèr víst stað, og því geta þeir heldur eingan sjúkdóm læknað nema af tilviljun. En allopathian getur **ekki** viðurkennt þetta, því það væri að neita sínum eigin augum; vèr allopathar vitum vel, t. a. m. að bleikjusótt (Blegsot) á fólki kemur af því, að það vantar járn í blóðið, og því getum vèr áreiðanlega læknað sýki þessa með járnmeðölum; vèr vitum vel, að bólgusóttir koma af ólgu í blóðinu, og því getum vèr opt fyrirbyggt þær með blóðsólgu-eyðandi meðölum; vèr vitum, með fullri vissu, að gikt og steinsjúkdómar koma af ýmsum söltum og sýrum, er safnast fyrir í blóðinu, og því getum vèr eytt þeim og fært þau út úr líkamanum, ef vorra ráða er leitað í tíma, og þeim rèttilega fylgt; vèr vitum að ýms ormaveiki kemur af lifandi dýrum innan í mönnum, hvar til fræið hefur opt komið utan að, og vèr vitum, að ef vèr drepum þessi dýr, sem opt tekst, þá hætta verkanir þeirra. Þannig getum vèr nú — þökk sè hinni nýjari allopathiu — komizt að undirrót og eðli flestra sjúkdóma, og ef vèr höfum fundið eðlið og undirrótina, þá tekst oss hvervetna að sigra þá. Það er einkum í þessari þekkíngu á **eðli** sjúkdómanna, sem allopathiunni á seinni árum hefur farið svo mikið fram, og því er lækníngamáti hennar allt af í framförum.

Eg vil spyrja hvern heilvita mann, hvort hann haldi, að hann geti ráðið nokkuð við þann hlut eða viðburð, hvers eðli hann ekki þekkir. Er það ekki sjálfsagt, að menn þurfa að þekkja eðli hlutanna, ef menn ætla að geta komið við nokkurri skynsamlegri meðferð við þá? og þegar sèra *Þorsteinn* játar það sjálfur, að hann og hans miklu læri-

feður *þekki ekki eðli* (það er náttúru, uppruna og innstu rætur) *sjúkdómanna*, þá verður hann sjálfur, ef hann er með heilbrigðri skynsemi, að játa, að hann og þeir tali um hluti, er þeir einga þekkíngu hafa á, og bíður þá slíkt hjal, eins og allur hans bæklíngur, eingra svara. Hann gjörir bæklínginn með þessu það, sem hann í raun og veru er, að eintómu rugli um hluti, er hann sjálfur ásamt hans homöopöthum játar, að hann ekkert skynbragð beri á. Sèra *Magnús* fór þó allt „fínna" í þetta, því hann lèt sèr nægja, að segja, að allopatharnir þekktu ekki eðli sjúkdómanna, en sèra *Þorsteinn* stígur feti framar og segir, að homöopatharnir þekki það heldur ekki, en þannig hefur þó sèra *Þorsteinn* sagt það satt um homöopathana, sem sèra *Magnús* hefur fellt undan, því hann vill gjöra þá enn vitrari, en þeir vilja vera sjálfir.

Að öðru leyti er það að segja um þennan mikla *Günther*, sem sèra *Þorsteinn* er að taka vizku sína úr, að hann á Þýzkalandi er álitinn *hálf-vitlaus*, og svo illa að sèr í læknis- og meðalafræði, að hann ber ekkert skynbragð á hvorugt. Þetta sýnir sig og í hverri grein í ritkorni sèra *Þorsteins*, svo sem t. a. m. bls. 6, þar sem verið er að tala um, að meðölin verði að eiga einhvern *„skyldugleikasvip við sjúkdómana"*; þetta bull sem einga meiníngu hefur, er svo fráleitt allri skynsamlegri hugsun, að það er auðsèð, að maðurinn skilur ekki sjálfur það, sem hann er að hugsa og skrifa. Á sjúkdómafræðinni er hinn sami ruglíngur, því sjúkdómarnir eru látnir vera *tóm einkenni* (Symptomer), en ekkert er tekið tillit til *eðlis* þeirra og *uppruna*, en þetta er þó undirrót allrar sannrar læknisfræði, og þar getur eingin önnur sönn undirstaða gefizt. Um lífsafla-þvættíng homöopathanna hef eg áður talað, og þarf því ekki að svara því, sem stendur á bls. 4 og víðar hjá sèra *Þorsteini* um þetta þeirra skapaða lífsafl; það vita allir, að það er ekki til í þeim skilníngi, sem þeir taka það, og því fellur öll þeirra byggíng, jafnvel strax á því, um sjálfa sig. Lífið er ekkert afl eða kraptur út af

fyrir sig, heldur er það samteingíng ótal efna með þeim óaðskiljanlegum öflum í ýmsar myndir, allt eptir þeirri reglu, er skaparinn setti í öndverðu, og því sagði herra B. Gunnlögsen: „— — sagðan krapt um síð og ár setur í allskyns myndir“; en hann lætur krapt og efni vera hið sama, og því er skoðun hans sjálfri sèr samkvæm og heimspekileg.

Þegar þessi ruglaði herra Günther, og sèra *Þorsteinn* í hans orða stað, er að færa homöopöthum það til gildis, að þeir eigi að við hafa (bls. 19) óblandin meðöl, einföld, þá er þetta tómt orðaglamur, sem sýnir, að þeir ekki sjálfir þekkja efni þau, er þeir við hafa, því allar þær jurtir, er þeir látast brúka, eru mjög samsettir líkamir, og eins er um vökvana, sem þeir látast pressa af jurtunum, því allt þeirra samsull miðar til þess, að villa sjónir fyrir almenníngi með einhverjum hègiljum og „tiktúrum“, sem eiga að vera svo ósköp lærðar, en sem eru af sömu rót og töfrareglurnar forðum, á meðan alþýðan var á tálar dregin af göldrum og fjölkýngi. Þessu líkt má finna á bls. 22, þar sem verið er að búa til einhverja ímyndunarflækju úr „verkunum meðalanna, sjúkdóms- og viðspyrnu- einkennunum“, og á bls. 23, þar sem verið er að tala um að *„hefja lífsaflið á beinan hátt“*, og bls. 31, þar sem *Doppler* í Prag á að hafa sýnt, að *„decillionföld* þynníng úr grani fái sèrlega verkun við eitthvert *handbragð“*, o. s. frv.; þess háttar vitleysur eru, eins og prof. *Headland* á Einglandi[1] nýlega hefur sagt, svo fjarlægar allri heilbrigðri skynsemi, að þær bjóða eingum svörum, því það er eins og einhver vildi standa á því fastar en fótunum, að úlfaldanum mætti koma í gegnum nálarauga, eða menn gætu tekið alla veröldina, og innibyrgt hana í lófa sínum. Eg hef áður sýnt, hvílík

---

[1]) An Essay on the action of Medicines in the System, by prof. Headland, London 1855. Þetta verk er álitið hið nýjasta og bezta, er nú sè til, um verkanir meðalanna, og því var það af enska heilbrigðisráðinu gjört að verðlaunariti. Í því stendur blaðs. 42 kafli um homöopathiuna, og segir höfundurinn, „að vitleysur hennar nái eingri átt, og bjóði eingum svörum, heldur en þær kæmu frá vitlausum mönnum“.

*ógnarleg* tala *decillionin* er, og sá maður, sem heldur, að einni byggkorns-þýngd verði skipt í *decillion* staði, hlýtur annaðhvort ekki að vita, hvað hún hefur að þýða, eða vera *vitlaus*, ef hann álítur það mögulegt.

Af þessum ástæðum, er nú eru taldar, get eg ekki fundið mig skyldan til að svara ritkorni séra *Þorsteins* framar, en hér er gjört. Það notar lítið, að eiga tal við menn, sem annaðhvort ekki vilja eða ekki geta tekið skynsömum ástæðum, en geti séra *Þorsteinn* tekið þeim, þá má hann af því hér sagða sjá, að þetta lærða (?) rit hans er svo hrakið og niður brotið í þessu, er hér hefur verið sagt, að það þarf ekki meira með.

---

Að lyktum verð eg að fara nokkrum orðum um niðurlagið í bæklíngi séra *Magnúsar*, þar sem hann segir, að hann í dómum sínum um allopatha hafi borið fyrir sig orð merkustu lækna. Þetta er nú svo frábær ósannindi, að í öllum bæklíngi hans finnst ekki nefndur einn einasti af hinum merkustu læknum vorrar aldar; sumir þeir, sem hann nefnir, eru frá öldinni, sem leið, og allmargir lángtum eldri. Þó væri þetta þolanlegt — því maðurinn sýnir það alstaðar, að hann þekkir alls ekkert til sögu læknisfræðinnar, og gætu menn því virt honum það til vorkunar —, en hitt er verra, að hann rángfærir orð þeirra, og heimfærir þau upp á allt annað efni, en höfundarnir hafa til ætlazt. Það er svo sem auðvitað, að eins og öllum duglegum læknum er og hefur verið umhugað um það, að vísindum þeirra gæti farið fram, svo fundust og einkum á fyrri öld, á meðan lækníng allra innvortis sjúkdóma var mjög skammt á veg komin, ýmsir læknar, sem voru að berja í brestina með það, er þeim þótti á vanta, einkum á meðan undirstaðan fyrir eptirgrennslun á *eðli sjúkdómanna* stóð á veikum fæti, en það er svo lángt frá, að þessir menn væru að taka homöopathiuna fram yfir allopathiuna — sem þeir og heldur ekki gátu, þar eð hún var ekki upp komin, er þeir rituðu —, að þeir fáu af þeim, sem hafa

þekkt hana í fæðíngu hennar, þótti hún vera nokkurskonar hjátrú, sem ekki væri nærri komandi. Þannig virðist mèr, að sèra *Magnús* þurfi naumast að vera að stæra sig af dómi *Hufeland's* gamla um homöopathiuna, því hann sagði, eins og sèra *Þorsteinn* einnig hefur um getið,[1] *„að hún væri gröf vísindanna"*, og mun hinni örgustu hjátrú ekki geta orðið gefinn verri dómur. Svona er og dómur allra hinna merkustu lækna, er uppi eru á vorum dögum, um homöopathiuna, og það er einmitt þessi dómur, en ekki gamlar aðfinníngar allopathanna við sjálfa sig, *sem stendur óhrakinn* í árbókum læknisfræðinnar, og hefur hann þó gollið hátt og lágt nú um *hálfa öld.* Dóm hins merkasta efnafræðíngs, *Liebig's,* sem sèra *Magnús* einnig ætlar að láta vitna sèr í vil, geta lesendurnir sèð hèr að framan, og þarf því ekki meira um hann að tala, en um sèra *Magnús* sjálfan er það að segja, að það er auðsèð á öllu, að hann þekkir *alls ekkert* til þeirra lækna, er á þessari öld hafa unnið að framförum læknisfræðinnar; þeir eru hvergi nefndir, það er eins og þeir væru ekki til, og þó má finna nöfn og gjörðir þeirra í flestum nýjari lækníngabókum.

Nú með því blessaðir norðlenzku prestarnir eru svo báglega að sèr, að þeir þekkja ekki einu sinni svo mikið sem nöfn þeirra merkislækna, er meira og minna hafa hjálpað til, að mynda hina nýju læknisfræði, og vita þess vegna alls ekkert um rit og gjörðir þeirra, þá vil eg gjöra þeim það til gagnsmuna, ef þeir skyldu einhvern tíma vilja snúa aptur, að rita hèr nöfn þeirra, ásamt þeim af bókum þeirra, er helzt mega þeim að gagni koma.

*Á Þýzkalandi* eru þessir hinir merkustu læknar á vorum dögum:

*Rokitanzky, Wallach, Walther, Carus, Valentin, Johannes Müller, Seherer, Siebold, Martius, Siebert, Nasse, Canstatt, Chelius, Micahelis Eisenmann, Roser, Herz, Beger, Rust, Heidenreich, Klencke, Hertvig, Siebenhaar, Wunderlich, Lessing, Cohen, Loebel,*

[1] Sjá rit sèra Þorsteins, Homöopathian á borð við Allopathiuna o. s. frv., bls. 35.

*Rösch, Albers, Griesinger, Heyfelder, Budge, Schur, Baumgärtner* (hans lækníngabók er útlögð á dönsku af Trier), *Naumann, Neumann, Kiwisch von Rotteran, Henle* (hans lækníngabók, sem er mjög áreiðanleg, kvað nú vera útlögð á dönsku), *Heussinger*, og margir fleiri, er hèr yrði of lángt upp að telja.

*Á Frakklandi* eru þessir:

*Alibert, Andral, Baron, Bouchardat* (nafnkunnur fyrir hans nýju bók um meðalanna verkanir), *Builland, Breschet, Barthez, Bequerall, Legrouf, Guerard, Grisolle, Chomel, Cruveilhier, Biett, Billard, Bayer, Dubois, Guersent, Diégés, Lallemand, Louis, Delpech, Magendie, Civiale, Piedaguel, Pjarry, Sandras, Throusseau, Velpeau, o. fl.*

*Á Einglandi:*

*Abercrombie, James Arnott, Bright, Brodié, Bird, Burnett, Budd, Burns, Clark, Copland, Cooper, Cottle, Carpenter, Headland, Lee, Davies, Elliotson, Evanson, Torbes, Cuthrie, Hope, Guy, Millingen, Hooper, Churchill, Hall, Marshall Hall, Holland Liston, Prout, Schill, Stokes, Smee, Thompson, Wallace, John Williams, Joseph Williams, James Wilson, Erasmus Wilson, William Addison, Forbes, Winslow.* Það er sannarlega ekki að sjá, að prestarnir þekki einn einasta af þessum rithöfundum, og þó eru það þeir, er mest og bezt hafa ritað um læknisfræðina á vorri öld, og valdið framförum hennar.

Í Danmörku, Svíþjóð og Noregi eru þessir hinir helztu læknar á vorri öld:

*Herholdt, Callisen, O. Bang, Eschricht, Otto, Sommer, Fenger, Thal, Withusen Möller, Christensen, Trier, Huss, Hjort, Holst, Heiberg, Boeck, Skjeldrup, Lund, Conradi, Danielsen, o. fl.*

Það væri nú gam'an, ef blessaðir prestarnir vildu fræða almenníng um, hvað þessir læknar, sem eru einmitt læknar vorrar aldar, segja um homöopathiuna. Flestir af þeim hafa meira og minna nefnt hana, *en einginn til góðs*, og allir munu þeir samdóma um, að hún sè til einkis nýt.

það er þannig til einkis fyrir séra *Magnús,* þótt hann þykist hafa 10 eða 16 meðöl við *barnaveikinni,* því allir merkir læknar vita, að hin homöopathisku meðöl hafa einga verkun, hvorki á hina *sönnu barnaveiki eða* nokkurn annan bráðan og hættulegan sjúkdóm; þetta er *margreynt* af hinum duglegustu læknum vorra tíma, og einginn samvizkusamur læknir fer framar að reyna slíkar hégiljur, þar sem slík hætta er á ferðum. Eg vil eingan veginn ímynda mér, að norðlenzku prestarnir, gjöri það á móti sannfæríngu sinni, að ráða til slíkra meðala í svo hættulegum sjúkdómi, eg vil gjarnan trúa því, að þeir haldi, að það sè svo, en þetta kemur af því, að þeir þekkja ekki sjúkdóminn, og hafa þannig oftraust á því, er þeir hafa sèð og lesið í þessum homöopathisku *hègiljum,* óvitandi um, að þetta er margreynt af hinum *samvizku-fyllstu* læknum. Eg fyrir mitt leyti hefði verið lángtum fúsari til að reyna *eitthvert* aðgengilegt meðal við þessari óttalegu veiki, ef eg sæi nokkur líkindi til, að það gæti hjálpað, hvort sem það væri upp fundið af bónda, presti eða hverjum sem væri, heldur en þessa homöopathisku hjátrúar-hègilju, sem eg af *reynslunni* veit, að er *handónýt.* Eigi að síður voru menn hèr í fyrra vetur að stauta við þessi homöopathisku meðöl, og reynslan varð, eins og vænta mátti, að hèr dó í suðuramtinu *fjöldi barna,* sem þau voru gefin, hvar um eg hef opinbera skýrslu. Að einstaka leikmenn þóttust sjá gagn af þeim, kom af því, að þeir þekktu ekki sjúkdóminn, og tóku þýngsla-kvef, sem batnar af sjálfu sèr, fyrir barnaveiki. Það getur vel verið, að það hafi verið ofhermt, er híngað barst, sumsè, að sèra *Magnús* þættist hafa óbrigðul meðöl við barnaveikinni, en eigi að síður var það þó almennt talað.

Það mundi alls ekki detta mèr í hug, að amast við sèra *Magnúsi,* sèra *Þorsteini* eða öðrum menntuðum mönnum, þótt þeir vildu hjálpa löndum sínum með lækníngatilraunum, ef þeir gjörðu það á vanalegan hátt, t. a. m. eins og sèra Jón á Grenjaðarstað, faðir sèra *Magnúsar,*

hefur gjört, og ýmsir aðrir, og hafa þannig án efa hjálpað mörgum manni. Slíkt kalla eg vel gjört, og þykir all-illt, að sèra *Magnús,* í stað þess að feta í fótspor föður síns, hefur gefið sig við þessu homöopathiska rugli, sem naumast mun verða honum eða öðrum til mikillar hamíngju, einkum þegar hann með hrokafullum sèrgæðíngsskap og óverðskulduðum hnjóð til hinna reglulegu lækna er að setja sig í dómarasætið, eins og væri hann einhver hinn mesti læknir, er uppi væri á vorum dögum.

Hvað umburðarlyndi embættisbræðra minna í norður- og austurumdæminu við homöopathiuna snertir, sem sèra *Magnús* er að hrósa þeim fyrir (sjá bls. 65), þá held eg víst, að hann gjöri fullt svo mikið úr því, sem það er, og hefur einn þeirra í brèfi til mín mælzt til, að eg vildi láta prenta kafla úr skýrslu hans til heilbrigðisráðsins um hana í þessu riti, hvað eg hèr með gjöri; en þessi kafli hljóðar svona:

---

„Hvað skottulækníngar snertir, þá er því eins háttað hèr, sem annarstaðar á landi þessu, að sumir menn hafa gefið sig við þeim. En í læknisdæmi mínu hefur þetta tekið þá stefnu, að kalla má, að skottulækníngar allopathanna hafi orðið að flýja byggðina fyrir homöopathanna lækníngum. Að sönnu verður hèr vart við einstöku skottulækna af hinum fyr nefnda flokki, en sá á meðal þeirra, sem mest kvað að, og það var prestur einn, varð að gefa frá sèr allar lækníngar, því honum vildi til sú óheppni, að brauðið, sem hann þjónar, hafði sinn homöopathann til hverrar handar, og hafa þeir orðið honum yfirsterkari. Hèr eru sumsè 2 velæruverðugir kennimenn í Þíngeyjarsýslu, sem iðka homöopathiuna, *Magnús* prestur *Jónsson* á Grenjaðarstað, og *Þorsteinn* prestur *Pálsson* á Hálsi, hinn þriðji, bóndamaður nokkur hèr í Eyjafirði, fluttist hèðan, litlu eptir að eg kom híngað, austur í Vopnafjörð, með því honum bauðst þar atvinna. En þótt hann sè farinn, þá er hèr eptir í nágrenni við mig lærisveinn hans, að nafni Grím-

ur Pálsson, það er bóndamaður, og fetar dyggilega í fótspor kennara síns, en öll hans speki segja menn sè rituð á eina pappírs-örk, hann skilur naumast dönsku, en því síður þýzku. Þessir nýnefndu velæruverðugu homöopathaskottulæknar hafa, eins og allt þetta villuráfandi skottulækna-kyn, haft sèrlegt lag á því, að gjöra meðöl og lækníngar allopathanna tortryggileg í augum leiðitamrar alþýðu, og eins og homöopöthum er tamt, hæla sjálfum sèr mest, og þykja sèr í eingu skjátla, hefja og þannig homöopathiuna til skýja, með því að niðra allopöthum sem allra mest. Menn þessir hafa mikla aðsókn, jafnvel svo mikla, að mælt er, að þeir hafi naumast haft tíma til að gegna prestverkum sínum; þeir lækna bæði menn og skepnur; þeir hafa meðöl bæði við líkamlegum kvillum, og ýmsum sálar-sjúkdómum (t. a. m. þeim er koma af því, að ástir bregðast milli karls og konu); eptir því, sem þeim segist frá, hafa þeir bót við öllum meinum. Hvað reynslu mína á lækníngum þessum snertir, þá hef eg heyrt margar sögur um kraptaverk þeirra, en eg met þær að eingu, meðan eg hef einga áreiðanlega vissu í því efni, og á meðan mèr hefur ekki gefizt færi á að skoða sjúklínga þá, er þeir hafa læknað, en mèr er ekki kunnugt um, að nokkrum manni hafi hjá þeim batnað, er eg áður hef haft til lækpínga; eg hef jafnvel gjört á því dálitla tilraun: eg ráðlagði manni einum, sem veikur var á geðinu, og sem eg hafði haft til lækpínga í sumar, sem leið, að hann skyldi leita ráða til homöopathanna, með því eg hèlt, að ef lækníngar þeirra ættu nokkurstaðar að hjálpa, þá mundi það vera hèr, þar sem um slíkan sjúkdóm væri að gjöra. Sjúklíngur þessi hefur nú reynt dropa þeirra allan veturinn, en er nú kominn aptur til mín, talsvert lakari en áður, að kalla má, hálfbrjálaður. Þannig hafa homöopatharnir eingan mann læknað, sem eg áður hef feingizt við, en hins vegar eru þeir ekki svo fáir, sem eg hef læknað, er áður hafa um leingri eða skemmri tíma reynt meðöl homöopathanna. Það má þannig færa sterkar líkur til þess, að lækpínga-tilraun ho-

möopatha hafi eingu góðu til vegar komið í læknisdæmi því, sem eg er yfir skipaður, og hitt er hægt að sýna fram á, að það hefur illt eitt af þeim staðið, eins og sjá má af því, er eg áður sagði. Það sèr hver maður, og einkum læknirinn, hversu mjög er undir því komið, til þess að lækníngar geti heppnazt vel, að menn geti náð í sjúkdóminn þegar við fyrstu upptök hans og rætur; á þessu hef eg marg-opt eingan kost átt, þar eð sjúklíngarnir hafa áður verið búnir að leita hjálpar hjá homöopöthunum, og leingi verið búnir að reyna meðöl þeirra, áður þeir hafa vitjað mín, en á meðan hefur sjúkdómurinn magnazt í þeim, lækníngin orðið erviðari, og stundum alsendis árángurslaus. Það hefur einnig ekki sjaldan borið til, að sjúklíngum, sem eg hef verið að fást við, hefur leiðzt að bíða batans hjá mèr, hlaupið til homöopathanna, eptir áeggjun þeirra manna, sem á þá trúa, og þegar þeim hefur heldur ekki viljað batna þar, hafa þeir síðan komið aptur til mín, og þá hefur opt verið komið svo, að þeir hafa verið miklu lakari, en þá er þeir fóru frá mèr; þetta hefur meðal annars átt sèr stað stöku sinnum, þar sem um hættulega sjúkdóma var að ræða, og sjúklíngarnir hafa dáið, en sem að líkindum hefðu mátt lífi halda, ef lækníngunum hefði ekki verið hætt svona í miðju kafi. Þess er og getandi, að skottulæknar þessir skerða bæði rèttindi lækna og lyfsölumanna, því homöopathar vorir kaupa sjálfir meðölin frá útlöndum, og selja þau síðan hèr í landi, opt við óguðlegu verði. Og rekur hèr þá að því, sem mjög er merkilegt, að hèraðalæknar hèr í landi fyrirskrifa meðöl frá innlendum lyfjabúðum, en þessum homöopatha skottulæknum skal, þrátt fyrir það, þótt eingin vissa sè fyrir því, hvort þeir hafi nokkra eður einga þekkíngu á læknisfræði, haldast uppi, að hafa talsverða meðala-verzlun, og það á þeim meðölum, sem þeir hafa pantað beinlínis frá útlöndum, og eru, sum hver, hinar skæðustu eiturtegundir. En svo er að sjá af brèfi lögstjórnar-ráðgjafans frá 29. Mai 1855, að skottulækníngar þessar megi líðast hèr í landi, þótt þær

leyfist ekki. Eg ætla samt, að trúin á almætti homöopathanna sè hèr heldur í rènun, þótt meiri þorri alþýðu sè þeim meðmæltur; hygg eg og, að ýmsir ritlíngar í blöðunum eigi hèr að góðan þátt, með því landlæknir vor hefur með miklum dug og heppni brotið niður kenníngar homöopathanna; eg er heldur ekki fjærri því, að lækníngar mínar, sem hafa verið talsverðar, og heppnazt fremur vel en hitt, hafi átt nokkurn þátt í því að hefja allopathiuna yfir hina. Að lyktum verð eg að geta þess, að álit mitt er, að hið óbrigðulasta meðal til þess að út rýma allskonar skottulækníngum, bæði allopatha og homöopatha, mundi vera það, að koma læknaskipun allri hèr í landi á góðan og fastan fót.

Akureyri 8. Jan. 1857.

Jón Finsen."

---

Hvað hinir aðrir læknar norður- og austur-umdæmisins hafa ritað híngað í skýrslum sínum um *homöopathiuna*, læt eg hjálíða að um tala í þetta sinn, en get að eins þess, að hefði eg látið það þegjandi fram hjá mèr fara, þá var það fullkomin og naumast bótmælandi forsómun á embættisskyldu minni, enda þótt sumir kunni að hafa álasað mèr fyrir, að eg lèt það ekki sem vind um eyrun þjóta. Eg hef nú í því tilliti leyst hendur mínar, og læt mèr það því í lèttu rúmi liggja, þótt sumir til að ávinna sèr almenníngslof, hafi neitað mèr um aðstoð þá í þessu máli, er eg hafði fulla kröfu á eptir landslögum og rètti; þessir menn hafa þar með sýnt, hvernig stjórn þeirra er, og mun hún lofa sig sjálf, ef vel er. Um dóminn á riti mínu gegn „*Fjölni*" er það að segja, að eg mun eins sæll af honum og mótstöðumenn mínir voru og verða í því máli. Það eru allmargir nú farnir að efast um nytsemi þá, er „Fjölnir" hafi gjört, og áður en jafnmörg ár líða, og liðin eru frá endalokum „Fjölnis" gjöri eg ráð fyrir og tel víst, að hrósíð um homöopathiuna íslenzku verði orðið að homöopathiskri þynníngu í 10. veldi.

Eg hætti nú í þetta sinn, án þess þó að lofa því, að þetta „skuli" verða í seinasta sinni, er eg ávarpa hina íslenzku smáskamtafræði.

---

## Til herra stud. politic. Arnljóts Ólafssonar.

Herra Arnljótur Ólafsson hefur í seytjánda ári „Fèlagsritanna nýju" fundið sig kallaðan til að senda löndum sínum ávarp um „samveikislækna", er hann svo kallar, af því honum þykir vèr „allopathar" gjöra þeim þúngar búsifjar, fara illa með þá, og vilja niður níða þennan svonefnda nýja lærdóm þeirra. Það gegnir sannarlega furðu, þegar menn jafnmenntaðir, og A. Ólafsson er, skuli vera að kalla það nýtt, sem allir þeir, er þekkja nokkuð til læknisfræðinnar, vita, að er því nær afgamalt marghrakið gutl, er eingir gefa sig að á vorum dögum, nema þeir einir, er vilja blinda fólk og narra út úr því peninga. „Homöopathian" er marg-reynd af hinum beztu og samvizkusömustu læknum, er lifað hafa um vora daga, og þessir hafa allir fundið hana ónýta og á vitleysum byggða; þetta er eigi að eins læknissögunnar, heldur og mannkynssögunnar dómur, sem eigi verður hrakinn, og sem það hefði verið skylda „Fèlagsritanna" og herra A. Ólafssonar að brýna fyrir löndum sínum, til að vara þá við öllum hinum homöopathisku vitleysum, og eigi veit eg, hvernig hinni reglulegu læknaskipun á að fara fram á landi hèr, þegar hinir úngu menntavinir vorir eru að troða upp á landa sína eins rángsnúnu, og mèr liggur við að segja illviljuðu áliti um lækna, eins og gjört er í þessu riti. Hvaða rètt hefur herra Arnljótur til að gjöra allopöthunum þær gersakir, er hèr eru gjörðar? Það er eins og þeir væru allir saman samvizkulausir menn, sem einúngis hugsuðu um sinn eiginn hag, þættust hafa nóg gjört, þegar þeir væru búnir að afljúka lærdómsprófi sínu, o. s. frv. Mèr finnst nú þetta eingan veginn vera að hlynna að læknaskipuninni á Íslandi, allra sízt þegar landar þar á ofan eru blekktir með því, hvílíkir makalausir menn homöopatharnir eigi að vera. Eg get því eigi annað en álitið það að vera tómt háð, þegar rithöfundur þessi er í enda greinarinnar að hvetja mig til að auka hina allopathisku læknaskipun á Íslandi. Eins og nú er komið fyrir „Fèlagsritunum", væri þeim víst bezt að snúa hinu „ágæta riti!!" Dr. Wilkinsons á íslenzku; eg hef raunar eingan botn og einga sanna ástæðu homöopathiunni til styrktar getað fundið í því, en hver veit, hvað löndum kann að takast, í hið minnsta mundu þeir aldrei meira móttækilegir fyrir slíkum röksemdum, sem þar eru bornar á borð, en þeir eru

nú á tímum. Það er því bezt fyrir herra Ólafsson að smíða, meðan járnið er heitt, en um sama leytið og hann gjörir löndum sínum þennan velgjörníng, þá vona eg að hann sem samvizkusamur maður skýri þeim frá, hvaða dóm þetta rit hefur feingið í hinum merkustu tímaritum á Einglandi; hvað skráð hefur verið um homöopathíuna á seinni tímum hèr á Norðurlöndum, og hvaða ávöxt hún hafi sýnt þar og annarstaðar í norðurálfu heims á hinum seinustu 10 árum. Eg leyfi mèr að vísa herra Ólafssyni á eitt sænskt læknisrit, sem „Hygiea" kallast, og út kemur í Stokkhólmi; í þessu riti hefur verið skráð um homöopathiuna og hreystiverk hennar rètt um sama leytið og hann var að skrifa í „Fèlagsritin" í fyrra, en sögurnar eru nokkuð á aðra leið, því þar er homöopöthum vísað til sætis hjá spákonum og galdramönnum, og sýnist, að þeir hafi eigi þorað að láta lærdóm sinn prófa á vísindalegan hátt. — Eg skora á herra Ólafsson, að snúa þessu riti, svo framarlega sem honum er annt um, að landar hans fái sannleikann að heyra í þessu máli. Það væru líka mátulegar athugasemdir við Wilkinson.

Þegar herra Arnljótur ætlar að slá landa sína með því að sýna þeim (sjá blaðs. 177), að norðurálfan hafi 922 samveikislækna, þá hefði hann um leið átt að gjöra þá athugasemd, að tala þessi er sára ómerkileg, þegar hún er borin saman við tölu allopathisku læknanna á hinu sama svæði, því tala þeirra mun vera fullar tvær milliónir, og sýnir þetta ljóst, hvað litla tiltrú homöopathian hefur getað aflað sèr nú í 60 ár, og vart mun nokkur hjátrúarflokkur sá til á vorum dögum, sem eigi hafi fleiri áhángendur við að styðjast. Líka finnst mèr hann hefði átt að geta þess, hvað hægt er að verða homöopath, eins og dæmin sýna hèr á Íslandi, þvi nú munu hèr upp sprottnir á stuttum tíma fleiri homöopathar, en frá megi segja, eins og sjá má af „Skírni", þar sem Þorvaldur nokkur Jónsson „homöopath„ er upp sprottinn úr honum allt að einu, eins og Mínerva forðum úr hauskúpu Júpíters.

Reykjavík 5. Aug. 1858.

*J. Hjaltalín.*